# LÝSING ÍSLANDS

## Á MIÐRI 19. ÖLD.

## KAFLI ÚR RÍKISFRŒÐI

EPTIR

ADOLPH FREDERIK BERGSÖE,

**háskólakennara og forstöðnmann ríkisfræðisdeildarinnar, riddara dannebrogsorðnnnar.**

---

SVEINN SKÚLASON

**hefur íslenzkað hana, og komið henni á prent með tilstyrk ríkisfræðisdeildarinnar.**

---

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ LOUIS KLEIN.

1853.

# FORMÁLI.

Síðan að Magnús konferentsráð Stephensen samdi „Island i det attende Aarhundrede“ hefur enginn Íslendingur ráðizt í að lýsa ástandi Íslands um lengri tíma en eitt ár, og sjaldan hafa þess konar lýsingar verið svo nákvæmar og fjölbreyttar, eins og þær þyrftu að vera. Hið bezta af þess konar ritgjörðum eru eptirmæli áranna 1835, 1836, 1837 og 1838 eptir sjera Tómas Sæmundsson, sem voru prentuð í Fjölni. Margar ágætar ritgjörðir um einstök mikils varðandi málefni Íslands, t. a. m. um skólann, um verzlunina, um læknaskipun o. s. frv. hafa reyndar komið á prent í Nýjum Fjelagsritum, og þess væri óskandi, að höfundur flestra þessara ritgjörða, herra Jón Sigurðsson, sem, eins og alkunnugt er, mun vera færastur maður um að lýsa ástandi Íslands bæði að fornu og nýju, fengi tíma til að rita um þetta efni.

Jeg ímyndaði mjer, að fáar bækur mundu löndum mínum þarfari en þess konar bók, er lýsti

högum landsins á marga vegu, og sýndi þannig landsmönnum á annan bóginn, hvað þeir ættu undir sjer sjálfum, það er að skilja, hvern afla náttúra landsins leggur þeim í hendur, og hvernig þeir hagnýta sjer þenna afla, og á hinn bóginn sýndi þeim, hvernig þeim væri stjórnað.

Af því að jeg var nú því miður ekki fœr um að semja þess konar bók sjálfur, fór jeg að hugsa um, hvort ekki væri til nein bók eptir einhvern útlendan mann, sem væri hentug til þessa, því opt sjá útlendir menn jafnvel betur en landsbúar sjálfir þjóðeinkenni þau, er annaðhvort tálma eða efla framför lands og lýðs, og einkum á það við á Íslandi, því landar vorir hafa, ef til vill, aldrei gjört sjer nógu mikið far um að rannsaka landið, og kynna sjer afla þess, og er það þó einungis með því skilyrði, að þeir geta lært að hagnýta sjer vel þenna afla.

Útlendir menn hafa ritað margar bœkur um Ísland, og hefur þar sannazt máltœkið, að sínum augum lítur hver á silfrið Sumir níða landið og þykir þeim það íllt og óbyggilegt eins og Flóka*) forðum. Landsmenn þykja þeim vera skrælingjar einir og að engu nýtir (þannig lýsa sumir Þjóðverjar oss, t. a. m. Anderson, bœjargreifi í Hamborg,

*) Sbr. Íslendinga sögur, Kaupmannahöfn 1843, 1. b. 30.-31. bls.

og nú fyrir skemmstu kvennsniptin Ida Pfeiffer). Sumum þykir landið fagurt og gott eins og þórólfi smjör, og lofa þjóðina í hverju orði (t. a. m. Henderson skozki). En því er betur, að nokkr segja kost og löst á landinu eins og Herjólfur.

þannig virtist mjer Íslandi lýst hlutdrægnislaust í þessum kafla úr „Den danske Stats Statistik“ eptir A. F. Bergsöe, háskólakennara, og þó að of stuttlega sje talað um sum atriði, og sumu, ef til vill, lýst smásmuglegar, en þörf væri á fyrir Íslendinga, þá er það von, því það hefur farið eptir því, hvað greinileg og nákvæm rit þau voru, er höfundurinn hefur haft að styðjast við, og ekki þótti mjer ráð að breyta þess konar til neinna muna.

Hafi landar mínir, eins og þeir geta haft, nokkur not af bækling þessum, þá mega þeir þakka herra jústitsráði, Oddgeiri Stephensen, fyrir það, því það er honum að þakka, að jeg fjekk styrk hjá stjórninni til að koma honum á prent, og kann jeg honum fyrir það miklar þakkir, og óska þess Íslandi, að það njóti hans lengi, og megi lengi telja hann, eins og svo marga af ættmönnum hans, meðal helztu og beztu sona sinna.

Að endingu verð jeg að biðja landa mína fyrirgefningar á því, að málið er ekki eins gott og jeg hefði feginn viljað, og kemur það ekki til af

því, að jeg hafi ekki haft allan vilja á að vanda það (því mjer virðast fleiri verða til að níða það en prýða, og vildi jeg engan veginn fylla þann flokk), heldur af því, að jeg er enn viðvæningur að rita, og af þvi, að opt er torveldara að snúa úr öðru máli, svo að vel sje, en ef frumritað er. Prentvillur held jeg að ekki sjeu neinar svo miklar, að þær valdi misskilningi, nema í athugagreininni á 1. bls. í 4. línu að neðan talið er prentað „kostað“ fyrir „kostnað“.

Kaupmannahöfn 15. d. janúarmán. 1853.

**Sveinn Skúlason.**

# YFIRLIT EFNISINS.

---

VIÐBŒTIR.

# FÁEIN ORÐ

## um helztu greinir ríkisvísindanna.

Af því að jeg er hræddur um, að landar mínir gjöri sjer, ef til vill, ekki rjetta hugmynd um, hvað ríkisfræði eða ríkislýsing (Statistik) er, og hvað ríkisvísindin, sem ekki hafa orðið mjög almenn fyr en á þessari öld, kenni mönnum, held jeg, að nauðsyn beri til, að jeg skýri þeim í fáum orðum frá vísindum þessum, að því leyti sem jeg er fær um og rúmið leyfir; það er annars kostar hætt við, að menn misskilji margt í bækling þessum, að mönnum þyki sumt of smásmuglegt, þyki t. a. m. búralegt að vera að tala um kirnur og koppa, þyki það ótilhlýðilegt að skyggnast inn í baðstofuna og gæta að, hvernig rekkjum er skipað o. s. frv.; en, ef að rjett er á litið, er þó ekkert þess konar of smásmuglegt eða ótilhlýðilegt í raun og veru, því opt eru það einmitt þess konar smáatvik, sem lýsa hvað bezt, hversu langt þjóðin er komin áleiðis í menntun, og ekki tjáir að draga dul á, þó eitthvað sje ófagurt hjá þjóðinni, því sje ekki neitt þess konar of mælt, þá á það að vera henni bending til þess að færa í lag það sem ábótavant kann að vera, en menn eiga ekki að reiðast sannleikanum. Ekkert af því, sem getur kennt þjóðinni að íhuga háttsemi sína, að rannsaka framferði sitt, er lítilvægt, og engin þjóð getur tekið miklum

framförum, nema hún láti sjer annt um að þekkja og bœta hag sinn, andlegan og líkamlegan.

Það er mjög áríðanlegt fyrir hvern einstakan mann að íhuga nákvæmlega hœfilegleika sína, til þess að hann geti þekkt og skilið köllun sína í lífinu, til þess að hann geti stutt sem mest til almennings heilla, og notið sjálfur sem bezt verndar þeirrar og annara hagsmuna, sem ríkið, er hann lifir í, getur látið honum í tje.

En af því að velgengni allra í ríkjunum er komin undir því, að þeim sje vel fyrir komið, er það enn áríðanlegra, bæði fyrir alla og hvern einstakan mann, að þau þekki og skilji tilgang sinn, til þess að þau geti veitt þá vernd og það traust, sem þau eiga að veita, og beitt sameiginlegu afli þjóðlimanna til framfara og fullkomnunar allra og einstakra.

Ríkisvísindin eru þau vísindi, sem skýra frá eðli, ásigkomulagi og tilgangi ríkisins, sýna hvað útheimtist til að ná þessum tilgangi, og kenna mönnum hvernig honum verði bezt náð.

Öll ríkisvísindi lúta þannig að því að lýsa tilgangi ríkisins, það er að skilja:

1. Ríkisvísin (Statsphilosophie) sýnir mönnum, hver œðsti tilgangur ríkisins eigi að vera.
2. Stjórnvísin (Politik) sýnir, hvernig mannkynið geti komizt næst því að ná œðsta tilgangi ríkisins.
3. Ríkisfrœðin eða ríkislýsingin (Statistik) kennir, að hve miklu leyti þessum tilgangi sje náð á vissum tilteknum tíma.
4. Stjórnarsagan (Statshistorie) skýrir frá því, hvernig mannkynið, frá því að ríki fyrst tóku að myndast, hafi leitazt við, og hvernig það enn leitist við að ná þessum œðsta tilgangi.

Um þessar þrjár fyrstu aðalgreinir ríkisvísindanna ætla jeg að fara fáum orðum.

1. Ríkisvísin er hin heimspekilega undirstaða allra ríkisvísinda. Hún leitar að hinum œðsta tilgangi ríkisins, og leiðir þar af rjett og skyldur ríkisins og þeirra sem í því eru.

Maðurinn finnur hversdagslega, að hann er sjer ekki einhlítur, að það er margt í heiminum í kringum hann og í náttúru sjálfs hans, sem tálmar honum og framför hans og sælu, bæði andlegri og líkamlegri. það liggur í eðli mannsins og ákvörðun, að leitast við að ná sem mestri fullkomnun; skynsemin býður honum því að binda fjelagsskap við aðra, af því að betur sjá augu en auga, og margar hendur vinna ljett verk.

Ríki er því frjáls samtök manna einu eða fleiri löndum, af einni eða fleiri þjóðum, til þess að hjálpast til að ryma burtu öllum tálmunum, andlegum og líkamlegum, er bægja mönnum frá að ná hinni œðstu fullkomnun, er maðurinn getur náð hjer á jörðunni; og verður þá tilgangur ríkisins, að mennirnir í því nái tilgangi sínum.

Af því að ríkisvísin ákvarðar þannig hinar algildu reglur, og sýnir, að hve miklu leyti hver stjórnarlögun nær tilgangi ríkisins, dœmir hún einnig um það, að hve miklu leyti hver stjórnarlögun er rjett eða ekki, og fer hún þá ætíð eptir því, hvað við á hjá ýmsum þjóðum og á ýmsum öldum, því eins og tíminn breytist, breytist einnig mannkynið, og það sem getur verið góð og viturleg stjórnarlögun á sumun tímum og hjá sumum þjóðum, er, ef til vill, röng og óviturleg annarstaðar; þannig geta stjórnarhættirnir verið margs konar, en allir verða þeir

að miða til þess, að tilgangi ríkisins verði náð, annars kostar eiga þeir engan rjett á sjer.

Eins og skynsemin býður mönnum að sameinast í fjelög og ríki til þess að efla framför sína og fullkomnun, eins býður hún þeim, sem hafa gjört slíkt samfjelag, að hlýðnast hinum æðsta sameiginlega vilja, það er að skilja: hún gjörir það að skyldu fyrir fjelagsmennina, að hlýða forstjórum fjelagsins, fyrir þegnana að hlýða stjórninni, annars getur ekkert fjelag og ekkert ríki staðizt.

2. Stjórnvísin sýnir, hvernig tilgangi ríkisins verði bezt náð eptir reglum þeim, sem skynsemi og reynsla kenna mönnum. þessi grein ríkisvísindanna er mjög yfirgripsmikil; hún skiptist í tvær aðalgreinir: stjórnarlögunarfræði og stjórnarfræði. Stjórnarlögunarfræði kennir, að hve miklu leyti hinar ýmislegu stjórnarskipanir geti náð tilgangi ríkisins. Hún rannsakar eðli þjóðanna, sem í ríkinu búa, og hvað langt þær eru komnar áleiðis í menntun; hún rannsakar stjórnarlögunina, eins og hún er, og breytir ekki án varhygðar því, sem lengi hefur staðið, því ætíð eru þó nokkur líkindi til, að þess konar ákvarðanir eigi við þjóðina. Stjórnarfræðin sýnir, hvernig beita skuli stjórnarvaldinu í öllum einstökum greinum samkvæmt stjórnarlöguninni.

Menn geta reyndar komizt nærri því að einskorða hinar almennu stjórnarreglur eptir aðaleinkennum og ástandi þjóðanna, en þó er það mjög torvelt, því í sama ríkinu eru opt ýmisleg þjóðerni og tungumál, ýmisleg trúarbrögð og menntun, og verður stjórnvitringurinn þar, eins og góður skipstjóri, er stýrir skipi sínu innan um sker og öldur rjetta leið til hafnar, að horfa á tvær hendur, og reka sig hvergi á.

3. Ekkert er stjórnvitringnum nauðsynlegra en að þekkja nákvæmlega ríkið, sem hann á að stjórna, og ekkert er hverjum frjálslyndum og skynsömum manni nauðsynlegra en að þekkja sem bezt þjóðfjelagið, sem hann lifir í, þegar hann er kvaddur til að taka einhvern þátt — hvort sem nú þessi hluttekning er mikil eða lítil — í stjórn sinni. þess vegna er lýsing á ríkinu og stjórnarsaga þess svo áríðandi til þess að sýna, að hve miklu leyti búið sje að ná tilgangi ríkisins á einhverjum tilteknum tíma. Ríkisfrœðin (rjettast væri, ef það væri ekki svo stirt, að kalla þessa vísindagrein ríkishagsfrœði) telur því upp og lýsir frumöflum þeim, sem ríkið er byggt á; hún sýnir fyrst, hvernig ásigkomulag landsins er, það er að skilja, hvernig landslag og jarðvegur er, og leiðir þar af, hvað mikið landið geti gefið af sjer; í öðru lagi rannsakar hún, hvað mikill vinnuafli er í landinu, það er að segja, hvað margt fólkið er, og hversu mikil fólksfjölgunin er á ári hverju o. s. frv.; í þriðja lagi lýsir hún því, hvernig mennirnir í landinu nota landsgœðin, og skýrir einnig frá viðskiptum manna í millum, eða með öðrum orðum, hversu mikill iðnaður og verzlun sje í landinu, og getur þess um leið, hvaða áhrif bæði stjórnin í ríkinu sjálfu, og samband þess við önnur ríki, hefur á þetta hvorttveggja, og í fjórða lagi sýnir hún afleiðingarnar af öllu þessu, það er, hversu mikil velmegun þjóðarinnar er.

það má sjá af þessu, að ríkisfrœðin telur greinilega upp allar stofnanir frá stjórnarinnar hálfu, sem annaðhvort stuðla til þess eða tálma því, að velmegun og hagsæld ríkisins aukist, t. a. m. hvort stjórnin lætur sjer annt um að koma upp landbúnaði, fiskiveiðum o. s. frv., hvort

iðnaður og verzlun eru frjáls eða ekki, hvort skólar eru settir handa iðnaðarmönnum, siglingamönnum o. s. frv., hvernig rjettar og lögreglu er gætt, og að hve miklu leyti stjórnin eflir menntun í landinu með skólum og háskólum, og hvernig hún annast um heilsufar manna með læknaskipun, spítölum o. s. frv., og ríður mjög á, að allar þessar lýsingar sjeu sem nákvæmastar og sannastar.

Menn hafa kallað ríkisfræðina sögu, sem nemur staðar, því hún lýsir því sama sem sagan lýsir, nema að því leyti, að hún tekur einhvern vissan tíma, en er ekki áframhaldandi röð viðburðanna eins og sagan. Það er því satt, að hún er hið sama og sagan, það er að skilja, sagan, sem stendur við á leið sinni, lítur allt í kring um sig, og hyggur vandlega að hve langt hún er komin. Ríkisfræðin lýsir því mörgu einstöku nákvæmar en sagan, og það er ætíð aðalkostur hennar, að hún sje sem ýtarlegust.

Hjer gjörist ekki eins þörf á að lýsa þeim greinum ríkisvísindanna, sem lúta að sambandi ríkjanna sín í milli, því þess þarf ekki við til að skýra fyrir Íslendingum efni bæklings þessa.

Þ ý ð.



# I.

## AFSTAÐA ÍSLANDS, STŒRÐ o. s. frv.

Norðan að Íslandi liggur íshafið, en á aðrar hliðar Atlantshaf. Ísland liggur frá 63° 24′ til 66° 33′ norður frá miðbaugi (og liggur þá suðurhluti þess jafnnorðarlega og þrándheimur), og frá 26° 6′ til 37° 12′ vestur frá hádegisbaugi Kaupmannahafnar. Ísland liggur þá hjerumbil 30 mílur í landsuður frá Grœnlandi, hjerumbil 75 mílur í útnorður frá Færeyjum, hjerumbil 150 mílur í norður útnorður frá Írlandi, hjerumbil 120 mílur í vestur frá þrándheimi og hjerumbil 250 mílur í útnorður frá Kaupmannahöfn. Þó farið verði frá Íslandi til Danmerkur á viku, þykir þó vel ganga, þegar farið er á hálfum mánuði. Frá suðri til norðurs er landið breiðast milli Portlands og Rauðagnúps, og eru það 48 mílur, en lengdin frá austri til vesturs er 66 mílur, og frá landnorðri til útsuðurs, milli Langaness og Reykjaness 63 mílur. Flatarmál Íslands er hjerumbil 1800 ferhyrningsmílur[1]), og

[1]) Nú eru til 5 ágætir uppdrættir Íslands, sem hið íslenzka bókmenntafjelag hefur látið prenta á sinn kostað árin 1844—1849 með tilstyrk ríkissjóðsins og vísindafjelagsins, einn, sem nær yfir allt landið, að stœrð 1/960000, og fjórir, að stœrð 1/480000, sem ná hver yfir fjórðung lands. Á seinni hluta 18. aldar og í

er það því helmingi stœrra en konungsríkið Danmörk og hertogadœmið Slesvík saman talin. Ef Ísland lægi í Jótlandshafi, næðu Jótland og England saman. Útnorðurhluti Íslands, Vestfirðir, er stór skagi (Barðastrandarsýsla, Ísafjarðarsýsla og Strandasýsla), sem eiðið milli Gilsfjarðar og Bitrufjarðar, sem er hjerumbil míla á breidd, tengir við hinn hluta landsins. Margar eyjar liggja fyrir ströndum

byrjun þessarar ljet tekjuráðið (Rentekammeret) mæla með þríhyrningamáli og draga upp allar strendur Íslands, og eptir þessum mælingum eru gjörðir 10 uppdrættir af ströndum landsins, sem gjörðir eru á kostnað sjóaruppdráttasafnsins árin 1788—1826. Saman við þessar mælingar voru nú bornar athuganir um himintungl, til að ákveða nákvæmlega hnattstöðu tveggja helztu kauptúna landsins, Reykjavíkur og Akureyrar, því þaðan var byrjað þríhyrningamálið. Til þess að fá góða uppdrætti af Íslandi, fól hið íslenzka bókmenntafjelag þenna starfa yfirkennara, Birni Gunnlaugssyni, á hendur, sem hafði í 18 ár með stakri vísindaást og kostgæfni í nokkra mánuði hvert sumar farið yfir allt land til að mæla og búa undir uppdráttinn, og það er þessi vísindamaður, er með hinni óþreytandi starfsemi sinni hefur átt mestan og heztan þátt í, að uppdrættir þessir fengust. Ólsen heitinn, sveitarforingi, hefur sjeð um stunguna á uppdráttunum, og eru þeir svo nákvæmir, að á meira en 100 stöðum er sýnd fjarlægð frá miðbaugi og frá hádegisbaugi Kaupmannahafnar, og þar að auki hæð yfir sjóarmál. Nákvæmari lýsing á uppdráttum þessum má fá í ritgjörð yfirkennara, Bjarnar Gunnlaugssonar: „De mensura et deleneatione Islandiæ interioris“. Viðey 1834. Eldri mælingum og uppdráttum Íslands er greinilega lýst í bók eptir Eggers, prófessor; hún var prentuð árið 1786, og heitir: „Physicalische und statistische Beschreibung von Island“, 156. — 217. bls. Auk hinna 10 uppdrátta, sem áður eru nefndir, er líka til einn uppdráttur, er prentaður er á kostnað sjóaruppdráttasafnsins 1826, og er hann seinna lagfœrður 1845. Á kostnað hins sama safns er líka prentuð, árin 1788—1822, lýsing á ströndum Íslands og höfnum, sem þar eru; hún er 4 hepti í fjögra blaða broti, og hefur Löwenörn, sjóforingi samið hana.

Íslands, og getum vjer einkum Vestmannaeyja, er liggja 2 mílur undan landi að sunnanverðu; stærst þeirra er Heimaey, sem líka er opt kölluð Vestmannaey. Þær eru ein sýsla.

Landinu var að fornu skipt í fjóra fjórðunga eptir stefnu tveggja stórra fjallgarða, sem liggja í kross, og skipta landinu í 4 hluti[1]). Fjórðungar þessir báru nafn eptir 4 höfuðáttum, en hefðu átt að heita útsuður-, útnorður-, landnorður- og landsuður-fjórðungur, og eptir þessari skiptingu hefur landinu seinna verið skipt í 4 umdæmi[2]), það er að skilja: suðurumdæmið, sem er hjerumbil 700 ferhyrningsmílur að stærð, vesturumdæmið, sem ekki er nema hjerumbil 300 ferhyrningsmílur og austur- og norður-umdæmin, sem einn amtmaður er yfir skipaður; þau eru bæði að stærð hjerumbil 800 ferhyrningsmílur. Umdæmunum er skipt í 19 sýslur, og þeim aptur í hreppa og sóknir.

---

# II.

## LANDSLAG OG FJALLALÝSING.

Það er auðsjeð, að Ísland hefur í fyrstunni allt saman verið hálendi, en láglendið og firðirnir við ströndina er þannig til orðið, að vatnagangur hefur brotið og veitt

[1]) Hinn mikli eldfjallagarður, sem endar við Kröflu í landnorður og Heklu í útsuður, liggur yfir þvert land, og sker hinn aðalfjallgarðinn, sem liggur frá útnorðri í landsuður.

[2]) Skaptafellssýsla, sem heyrði undir austfirðingafjórðung, og Borgarfjarðarsýsla, sem lá undir vestfirðingafjórðung, eru nú lagðar við suðurumdæmið.

miklu burtu. það er ekki meira en fjórðungur lands, sem liggur neðar en 1000 fóta yfir sjóarmál, og eru því $^3/_4$ hlutir lands óbyggðir. Árnar, sem falla niður af hálendinu, hafa gjört allt láglendi og alla dali; það er að skilja, að árnar hafa annaðhvort grafið í sundur fjöllin, og eru dalirnir þannig til orðnir, ellegar að þær hafa brotið upp iarðveginn, og borið hann niður í hafið við ströndina, og fyllt það upp, og þannig er til orðið láglendið, er liggur með suðurströnd landsins. Til að gjöra sjer skiljanlegt hið mikla afl vatnanna, verða menn að gæta að því, að niður af hálendi, er liggur svo norðarlega, streymir ekki eingöngu vatn, heldur bera árnar með sjer í leysingum á vorin stóra ísjaka, sem rífa upp grjót og jarðveg, þegar vatnsmegnið hleypir þeim á stað. Miðbik landsins er samfast flatlendi, 1000—3000 fóta yfir sjóarmál, og eru þar ekki aðrar ójöfnur en einstakir jöklar og öldur; víða á þessu hálendi eru sandar af nokkurs konar móbergstegund. Snjólínan á Íslandi liggur 2700—3000 fóta yfir sjóarmál, og eru því allir hlutar lands, er hærra liggja, allt árið huldir snjó og ís; þessir hlutar lands, er samtals eru $^1/_9$ af flatarmáli landsins, eða rúmlega 200 ferhyrningsmílur, heita jöklar, en þeir jöklar, er ná niður undir dalina, heita skriðjöklar. Mestallur landsuðurhluti Íslands er þakinn jöklum og hraunum, sem óvíða verður farið yfir. Yfir mikið af þessu svæði tekur hinn afarstóri Vatnajökull eða Klofajökull, sem er hjerumbil 150 ferhyrningsmílur að stærð. og Ódáðahraun, sem er hjerumbil 50 ferhyrningsmílur, og nær upp að útnorðurhlið Vatnajökuls. Í þessum hluta lands ná jöklarnir nærri því niður í grös; þar eru hæst fjöll á landi, Öræfajökull og Snæfell. Á öllu norðurlandi eru fjöll lægri, og þegar

frá eru skildir 2 jöklar á vestfjörðum, eru þar einungis fáeinir smájöklar, og í landnorðurhlutanum enginn sem teljandi sje. 8 hæstu fjöll eru:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Öræfajökull... | 6241 | fóta | yfir | sjóarmál. |
| Snæfell...... | 5808 | — | — | — |
| Eyjafjallajökull | 5432 | — | — | — |
| Herðubreið... | 5290 | — | — | — |
| Hekla....... | 4964 | — | — | — |
| Stórhöfði.... | 4509 | — | — | — |
| Birnudalstindur | 4300 | — | — | — |
| Rimar....... | 4020 | — | — | — |

Einungis 2 af þessum tindum, Herðubreið og Rimar liggja á Norðurlandi. Merkilegast af fjöllum þessum er eldfjallið Hekla eða Heklufell, sem liggur 20 mílur í austur frá Reykjavík; hún hefur optast gosið af öllum eldfjöllum á Íslandi. Efsti tindur á eldfjalli þessu er nærri því ætíð hulinn skýi, sem er í lögun eins og kápa[1]), sem optast hefur varnað ferðamönnum, þá sjaldan að farið hefur verið upp á hana, að gjöra athuganir. Hún hefur, síðan menn hafa sögur af, gosið 18 sinnum, árin 1104, 1157, 1206, 1222, 1294, 1300, 1341, 1389, 1436, 1510, 1554, 1578, 1597, 1619, 1636, 1693, 1766 og 1845, tvisvar og þrisvar á hverri öld, og hafa liðið á milli gosanna 53, 48, 16, 72, 6, 41, 48, 47, 74, 44, 24, 19, 22, 17, 57, 73 og 79. Af því að svo langt hefur liðið milli þriggja seinustu gosanna, virðist mega ráða, að eldgangurinn í fjallinu sje farinn að minnka. Ekki hafa eldgosin verið að tiltölu ákafari, þó langt hafi liðið á milli. Eldgosið, sem byrjaði 5. d. aprílmánaðar 1766, er eitt-

[1]) Af þessu skýi hefur hún fengið nafnið Hekla, sem þýðir kápa með hetti.

hvert hið stórkostlegasta af öllum Heklugosum. Oskustrókurinn var 21. d. aprílmánaðar hjerumbil 16000 fóta hár, og seinna opt töluvert hærri. Vikurkol, faðmur ummáls þeyttust 2 mílur vegar burtu, og á 30 mílna svæði var ströndin þakin með minni vikurkolum. Seinasta eldgosið, árið 1845, stóð yfir, svo lítið hlje var á, í 7 mánuði. Askan kom niður á skip langt úti í hafi, og, hjerumbil 19 stundum eptir að gosið var byrjað, á skip, sem var 140 mílur undan landi. Daginn eptir að gosið byrjaði fjell aska á Færeyjum, og þriðja daginn á Orkneyjum. Eldflóðið rann 50 fet á stundu; það var svo mikið, að það hefði getað náð yfir 1353 dagsláttur, þó að það hefði verið 330 fet á þykkt. Af því að nærri því öll eldfjöll á Íslandi eru jöklar, spýja þau ekki einungis hrauni, ösku og grjóti, heldur einnig leir og vatni. Öskustrókurinn var á hæð 6774—13926 fet, það er tvöfalt eða þrefalt hærri en fjallið. Jarðskjálftarnir, sem voru samfara gosinu, voru svo hægir, að þeir gjörðu hvergi mein, og þegar frá eru skildar fáar sveitir, gjörði eldgos þetta lítið tjón, bæði af því, að mesta öskufallið lenti í óbyggðum, og af því, að ákafar rigningar skoluðu mestallri öskunni, sem fallið hafði langt burtu, niður í árnar skömmu eptir öskufallið.

Hekla er, eins og allir vita, ekki eina eldfjallið á Íslandi, þó að hún hafi optast gosið. Þar eru bæði mörg fjöll, sem enn er eldur í, og mörg, sem nú eru út brunnin, og í Mývatnssveit, sem er fagurt pláss og skemmtilegt, geta menn á einum stað talið 30 eldgíga. Víða á landinu eru hraunhellar, djúpar sprungur og gjár í hraunin og eldgígatjarnir. Merkilegastur af hraunhellum er Surtshellir, sem er 839 fet að lengd. Fjöllin íslenzku eru víða mjög fögur, einkum á norðurlandi og austurlandi; einkar fögur

eru stuðlabergsgöngin, þar sem stólparaðirnar standa eins og fegursta íþróttasmíði[1]).

Gæti menn nákvæmar að jarðlagafræði Íslands, er það einkum einkennilegt, að allt landið er til orðið af jarðeldum; jarðefnin hafa, sum áður en sögur gjörðust og sum seinna, brotizt óstorknuð upp úr jörðunni um gjár og gíga, og líkjast því að mestu leyti því, sem vant er að kalla hraun. Í hrauntegundum þessum eru bæði ýmisleg frumefni, og líka er samband þeirra og útlit misjafnt, og heita þær því ýmsum nöfnum.

Helztu fjalltegundir á Íslandi eru að mestu leyti samsettar eins og fjalltegundir þær, sem kenndar eru við „Dolerit", og eru annaðhvort í reglulegum lögum, hver yfir annari, sumar þjettar (eins konar blágrýti) og sumar með holum, bláleitar eða móleitar, það er kallað stallagrjót; ellegar að lögin eru ekki eins reglulega greind hvert frá öðru, það kalla menn Okstein. Hrauntegundir þessar eru ákaflega þykkar og stórar ummáls, og líkjast á sumum stöðum stallagrjóti því, sem reglulegast er, en á sumum stöðum líkjast þær hinum stóru storknuðu brunahraunum, sem opt eru margar mílur að lengd, og sem til eru orðin í eldgosum á seinni tímum; þau eru þriðja tegundin, sem jarðeldurinn hefur myndað í samföstum

---

[1]) Uppdrættir af fallegum stöðum á Íslandi eru gjörðir í „Atlas historique", og verður sú bók síðar nefnd, í „Travels in the island of Iceland", Edínaborg 1811, eptir skozkan barún að nafni Mackenzie, í „Iceland or a Journal of a residence in that island during 1814 and 1815", ferðabókinni eptir Henderson skozka, sem er prentuð árið 1818, í „Bref rörande en resa till Island" eptir Troil, sem er prentuð 1777, og í ferðabók Eggerts Ólafssonar, sem seinna verður nú getið.

lögum*); en auk þess er enn til ein af samkynja tegundum, móbergið; það er hrauntegund med holum, sem sprungið hefur í sundur við gosið, og eru í því stórir og smáir hraunmolar, optast með hvössum röðum, sem eru límdir saman með ösku eða smákornum. Af því að móbergið er þannig samsett, er i því stórgjörð og smágjörð sandsteinstegund, sem venjulega er gráleit eða grámóleit að lit. þegar að meira er í móberginn af smágjörðu pörtunum, verður það allt smágjört, og er þá ekki lengur á því að sjá, að það sje blandað af fleiri en einni tegund, heldur sýnist það þá vera einnar tegundar. þar sem hið bráðna hraun hefur kólnað skjótlega, hefur það greinzt í reglulegar súlur og stólpa. Slíkar súlur, er líkjast stuðlabergi, eru opt í fjallakömbum, en optast í klettabeltum í fjallshlíðum.

Líkastar hrufugrjótstegundnm eru í annan stað aðrar steinmyndanir á Íslandi, sem þó eru miklu sjaldgæfari en hinar fyr töldu, og eru þær með einu nafni nú á tímum kallaðar Baulusteinsmyndanir; það er ýmist, þjett steintegund, sem optast er hvítleit eða gráleit, Baulusteinn, eða kornóttur steinn, og hefur hvert korn geislamyndað sár eins og „Retinit“; þessir steinar liggja, sumir í reglulegum lögum, og sumir ekki (þeir eru kallaðir á íslenzku hellur og hellugrjót), eða svört steintegund, svipuð gleri, bungumynduð eða flísuð í sárið (hrafntinna, hrafntinnubróðir), eða þá þráðmyndaður steinn með holum (skúrsteinn).

*) Í íslenzku verður að hafa „hraun“ og „hrauntegundir“ í rýmri merkingu, en venjulega er haft, það er að skilja, að láta það ná yfir allar jarðtegundir og steinategundir, sem til eru orðnar af jarðeldum, eins og útlenda orðið „Lava“ er haft.

þýð.

Stallagrjótið, sem áður er nefnt, er haldið að hafi myndað mestan hluta landsins; því að fjöllin með fram vestur-, norður- og austur-ströndunum frá Esju, sem liggur skammt fyrir norðan Reykjavík, og að syðri fjörðunum á Austfjörðum, eru öll saman eða mestöll mynduð af lögum úr þessari fjalltegund, og sömu fjalltegundir eru í dalahlíðunum á þessu svæði, og sýnir það, að þessi fjalltegund nær alstaðar inn í miðbik landsins. Menn geta ætlað á, að stallagrjótið sje þannig undirstaða hálendisins í miðju landinu, 2000—3000 fóta að þykkt. Víða við strendurnar er stallagrjótið hulið með lögum af nýrri fjalltegundum, sem virðast jafngömul og stœrstu árnar, þær heita Oksteinategundir, og þegar frá ströndinni dregur, er stallagrjótið víðast hvar þakið af þeim eða móberginu; það er sú fjalltegund, sem myndar mestan hluta af yfirborði landsins; það leggst í þykkum lögum yfir hinar fjallategundirnar, og því er miðbik landsins svo hátt, og það er því einkum á þeirri fjalltegund að jöklarnir liggja. Hraunflóðin úr eldfjöllum þeim, sem gosið hafa á seinni tímum, hafa annaðhvort streymt ofan í dalina eins og ár og lœkir, og storknað þar, eða runnið út yfir breitt svæði, margar mílur að lengd. þessi yngri hrauntegund er það, sem Íslendingar kalla hraun; það hefur opt streymt hvað yfir annað, og eru þannig til orðnar fjalladyngjur, sem utan á að sjá eru áþekkar stallagrjótsfjöllum; en venjulega er það þó misþykk skorpa, sumstaðar samföst, og sumstaðar brotin, sem liggur ofan á eldri lögunum. Vikrið og öskuna, er gýs upp ásamt með þessum eldhraunum, bera vindar optast langt burtu, og þekja þau því bæði fjöll og dali. Öll aðaleldfjöll á Íslandi brjótast, þegar þau gjósa, upp úr móbergslögunum, sem þau liggja á; dýpt eldgíganna,

sem minnkar skömmu eptir gosið, er því fremur að eigna þessu en sjálfu gosinu.

Baulusteinstegundirnar finnast á einstökum stöðum, þegar mest er, í einu og einu fjalli sjer, en aldrei í samföstum fjallgörðum. Einkennilegust er fjalltegund þessi í Baulu, Drápuhlíð, Tindastól og Móskarðahnúkum. Áður þekktu menn fjalltegund þessa í einstaka stað, en nú vita menn af henni á 50—60 stöðum á landinu; það er vafi á, hvort að eldfjöll, sem þessar hrauntegundir eru í, hafi gosið, síðan að sögur gjörðust. Það hefur þótt undarlegt, hvað óvíða vikurkol finnast á Íslandi, þar sem svo mikil eldfjöll eru, hjá því sem er við eldfjöll í suðurhluta norðurálfu, og kemur það til af því, að vikurkolið er ein af Baulusteinstegundum. Það virðist, að hverarnir eigi skylt við Baulusteinsmyndanir, og að þeir sjeu áframhald þeirra; Eggert Ólafsson tók líka eptir því, hvað svipað væri útlit sumra Baulusteinstegunda og steintegunda þeirra, er safnast kringum hverana.

Frá jarðlagafræði Íslands er nákvæmar skýrt í „Reise igjennem Island“ eptir Eggert Ólafsson, sem er prentuð árið 1772; það er stór bók, og er í henni nákvæm lýsing á Íslandi og góðar athugasemdir um jarðfræði þess; í stærri ritgjörðinni eptir Krug von Nidda í „Archiv for Mineralogi“, sem Karsten kom á prent, í „Oversigt over Videnskabernes Selskabs Forhandlinger 1842“, á 43.—55. bls.; þar er stuttlega lýst hinum ágætu rannsóknum eptir Forchhammer, háskólakennara, um þetta efni, einkum um samsetningu steina. Við þessi rit má saman bera: „Hekla og dens sidste Udbrud“, eptir Schytte; sú bók er prentuð í Kaupmannahöfn 1847; „Physisch-geographische Shil-

derung von Island mit besonderer Rücksicht vulkanischer Erscheinungen", eptir Sartorius von Waltershausen, prentuð 1847; ritgjörðir eptir R. Bunsen, háskólakennara: „Beitrag zur Kenntniss des isländischen Tuffgebirges", og „Ueber den innern Zusammenhang des pseudo-vulkanischen Erscheinungen Islands", í Annalen der Chemie und Pharmacie", 61. og 62. bandi; ritgjörðir eptir sama mann í „Annalen der Chemie", sem Liebig hefur látið prenta, 61. og 62. bandi, og að síðustu jarðfræðin eptir Robert, sem er eitt af ritunum um ferðina, sem Gaimard var fyrir. Ferð þessi varð til, eins og nú skal greina: Frökkum varð vant herskips, er var á siglingu norður í hafi, og sendi stjórn Frakka annað skip að leita þess, og ljet nokkra frakkneska vísindamenn fara með skipinu, til þess að kynna sjer eðli og ásigkomulag Íslands og Grænlands. Þessir menn gjörðu sjer meira far um, að kynna sjer Ísland, og eru til mörg rit eptir þá, sem heita með einu nafni: „Voyage en Island et au Grœnland exécutée pendant les années 1835 et 1836 sur la corvette la Recherche publiée par ordre du roi sous la direction de Paul Gaimard." Rit þessi, sem eru misjöfn að gæðum eru: 1. „Histoire du voyage", eptir Gaimard, prentuð í Parísarborg 1838; bókin er 550 bls. að stærð, og er í henni skýrt frá tilefni ferðarinnar, reglum, sem þeir áttu að fylgja í rannsóknum sínum, og ýmislegum brjefum milli þeirra og annara vísindamanna um ferðina. 2. „Géologie, minéralogie et botanique", eptir E. Robert, í 8 blaða broti, med 36 myndum, prentuð í Parísarborg 1840. 3. „Physique", eptir

V. Lottin, prentuð í Parísarborg 1838; bókin er 546 bls. í 8 blaða broti. 4. „Hisoire de l'Islande", eptir Marmier, 385 bls., í 8 blaða broti; á 24 fyrstu blaðsíðunum hefur hann á fallegu máli lýst Íslandi og íslenzku þjóðinni. 5. „Literature Islandaise", eptir Marmier, 176 bls., í 8 blaða broti, og er ekki nema upphafið. 6. „Atlas historique", í 2 blaða broti, með 136 steinprentuðum myndum af ýmsum landspörtum og háttum þjóðarinnar. 7. „Atlas zoologique, médical et géographique", og er ekki prentað meira af því en einstök blöð. Ritsafnið er hætt, og það, sem á vantar, kemur sjálfsagt aldrei á prent.

---

# III.

## UM VATNIÐ Á ÍSLANDI.

Mikið af jökulísnum á Íslandi þiðnar á sumrin, og eru því margar jökulár þar, sem renna út í firðina og sjóinn; flestar eru þær á norðurlandi. Ár þessar eru vanar að renna langan veg undir jöklinum, þangað til að þær brjótast freyðandi fram undan honum með dunum og dynkjum, og rífa með sjer bæði stórgrýti og afarstóra ísjaka. Vatnið í jökulánum er ískalt og eins og skolavatn að lit, og kemur það líklega til af því, að þær bera með sjer smásand úr ýmsum steintegundum, einkum vikri, sem þær hafa mulið í smáagnir. Lengstar eru jökulárnar, sem renna í útnorður og suður, þær eru 20—25 mílur að lengd [1]), en þær stytztu og straumhörðustu eru á austurlandi

[1]) Lengstar eru: Jökuleá á fjöllum, sem líka heitir Jökulsá í Axarfirði, 25 mílur að lengd, Skjálfandafljót, 24 mílur; Þjórsá

og vesturlandi. Víða steypast ár í fallegum fossum niður af fjöllunum, og nefnum vjer einkum Goðafoss, Seljalandsfoss og Skógafoss. Það er nú einkum aflið í vötnum þessum, sem skorar í sundur fjöllin, og myndar firðina[1]); þó hefur líka hafið í stórflóðum gengið á landið, og þannig gjört sitt til að stækka firðina og flóana. Hafnaleysið á mestum hluta suðurlands kemur líka til af því, að árnar hafa veitt svo miklu út í hafið. Hafið og árnar hafa enn svo mikil áhrif á strendurnar, að menn verða einkum að taka það til greina, þegar teknar eru upp nýjar hafnir, til þess að sjeð verði, hvað lengi þær geti haldizt.

Á Íslandi eru margar uppsprettur. Meðalhiti á vatninu í þeim er $5^{1}/_{2}{}^{0}$ á hitamæli Celsius. Hitinn í uppsprettunum er nokkurn veginn eins allt árið, og á veturna, þegar kalt er úti, virðist mönnum því, að þær sjeu

---

á suðurlandi er líka 24 mílur, Jökulsá á brú, sem rennur í Hjeraðsflóa á austurlandi, Hvítá, sem neðan til er kölluð Ölfusá, og Blanda í Húnavatnssýslu eru hvor um sig 15 mílur að lengd.

[1]) Það er bágt fyrir þann, sem ekki hefur verið á Íslandi, að gjöra sjer rjetta hugmynd um, hversu mikla náttúruöflin orka þar. Jökulárnar og einkum jökulhlaupin, sem opt eru samfara jarðeldum, ryðja með sjer stórum ísjökum, sem róta upp og bylta áfram feiknamiklum sandi, leir og stórgrýti. Sólheimasandur og Mýrdalssandur og aðrir áþekkir kaflar á suðurlandinu eru einungis til orðnir á þann hátt, að árnar hafa fyllt upp hafið, og klettarnir, sem standa upp úr söndunum langt frá sjónum, hafa áður verið sker úti í hafi. Á undan jökulhlaupinu 1660 mátti víða sigla fyrir innan sker þessi, en á einni nóttu fylltist hafið, og varð að þurrlendi á stórn svæði, þar sem menn áður drógu fisk á 20 faðma djúpi, og á einstaka stað, þar sem flyðrur voru dregnar á færi á miklu meira djúpi. Ekki gjörði jökulhlaupið mikla árið 1721 minna að verkum, og mörg jökulhlaup, bæði undan og eptir, hafa þannig fyllt sjóardjúpið, og skotið út ströndunum, svo mílum skiptir.

ívolgar[1]). Líka er á Íslandi mikið af hverum, og veldur þeim jarðhiti, sem sífellt er að brjótast um í iðrum jarðarinnar, og leita út, og gjörir vart við sig í merkilegum náttúruviðburðum, þar sem hann er ofarlega í jörðu. Í grennd við Haukadal, þar sem að Strokkur og Geysir eru, eru 50 aðrir sjóðandi hverar, sem hvítan heitan reyk leggur upp úr. Hverarnir íslenzku eru ólíkir öllum öðrum hverum í norðurálfunni að því leyti, að í þeim er kísill, sem er blandaður við vatnið, eða við kolsúrt „kali“ og „natron“. Í gufunni greinist kísillinn frá hinum frumefnunum, og á börmunum á skálinni, sem optast er kringlótt, er kísilskorpa, sem stundum liggur í ýmislegum lögum og stundum í ýmsum myndum, sem eru mjög undarlegar. Hitinn á vatninu neðst í hverunum er rúmlega 100⁰ á hitamæli Celsius, og fer hitinn eptir því, hvað vatnsstöpullinn er hár, en efst er hitinn nokkru minni en á sjóðandi vatni[2]). Ekki gjósa allir hverar, og þeir, sem gjósa er tvenns konar: a) þeir sem að gjósa svo, að ekki líður ætíð jafnlangt á milli, og heyrast dunur og dynkir, þegar þeir ætla að fara að gjósa; til þessa flokks heyra: Geysir, sem optast gýs einu sinni á dag — vatnsstrókurinn upp úr honum, sem reyndar er mjög misjafn, er optast hjerumbil 100 fóta —, og Strokkur, sem gýs optar, en ekki eins hátt[3]). b) þeir, sem að

---

[1]) Sbr. „Naturhistorisk Tidsekrift“, sem Kröyer hefur látið prenta, II. 262. bls. og þar á eptir.

[2]) Hitinn í Geysi er 124⁰ eptir hitamæli Celsius niðri á botni, en efst ekki nema 76⁰—89⁰. Allur er Geysir 80 fóta djúpur, en vatnið í honum 60 fóta hátt.

[3]) Geysir og Strokkur, sem eru optast 10—25 mínútur að gjósa, liggja nærri því hvor hjá öðrum (bilið á milli þeirra er 50 faðmar) í útsuðurhluta landsins, hjerumbil 64⁰ 19′ norður frá

gjósa svo, að jafnlangt líður á milli, og heyrist ekkert til þeirra, áður en þeir fara að gjósa; þannig er minni Geysir, í Ölfusi, sem gýs sjöttu hverja stund. Auk þessara hvera, sem nú eru taldir, eru líka til brennisteinshverar; flestir eru þeir nálægt Reykjahlíð og Kröflu. Alstaðar þar, sem hverar eru, er jarðvegurinn þar í kring heitur, og því heitari, því dýpra sem grafið er. Það væri því hægt, að byggja mörg gufuböð á Íslandi, og væri betur, að menn vildu færa sjer það í nyt, því að giktveiki er þar mjög almenn. Auk hveranna eru líka til ölkeldur, sem svo eru nefndar, einkum á vesturlandi, en ekki er enn rannsakað, hvert gagn megi hafa af þeim. Í kring um Kröflu eru líka allmargir leðjuhverar, og gjósa sumir þeirra leðjunni 10 fet í lopt upp, en í sumum vellur, án þess þeir gjósi; einn þeirra er 300 fóta ummáls.

Víða er það, að vatnið getur ekki náð framrás, og þannig eru mýrar og flóar til orðnir. Stöðuvötn eru líka mörg á Íslandi; stærst þeirra eru Þingvallavatn, er liggur þingmannaleið fyrir austan Reykjavík, Hvítárvatn og Arnarvatn, sem öll eru í útsuðurhluta landsins, og Mývatn, sem liggur í landnorðurhlutanum.

---

miðbaugi og 32° 51′ vestur frá hádegisbaug Kaupmannahafnar, 14 mílur í landnorður frá Reykjavík, og 7 mílur í útnorður frá Heklu. Skál Geysis er 50 fóta breið og 8 fóta djúp niður að holunni, sem er 80 fóta djúp, og vatnsstrókurinn upp úr honum er 46 fet að ummáli. Geysi er lýst greinilegast í ritinu eptir Robert, sem áður er nefnt, 159.—186. bls., og í ritinu eptir Lottin, sem nefnt er á sama stað, 410. bls. og þar á eptir. Sbr. ritið eptir Sartorius von Waltershausen, sem nefnt er á 10. bls., og „Naturhistorisk Tidsskrift“, sem Kröyer hefur látið prenta, II. 209. bls. og þar á eptir; þar er prentuð ritgjörð um Geysi og Strokk eptir Jónas Hallgrímsson.

# IV.

## UM HAFIÐ VIÐ STRENDUR ÍSLANDS OG HAFÍSINN.

Suðurströndin á Íslandi er lág og sendin, og eru þar nærri því engar hafnir, en á öllum öðrum stöðum eru strendurnar háar og klettóttar, og er mjög brimsamt þar við land. Inn í vesturhluta norðurstrandarinnar og vesturströndina skerast margir langir firðir. Á austurlandi eru líka allmargir firðir, en af því að fjöllin ná þar niður að ströndunum, skerast þeir ekki langt inn í landið. Á austurhluta norðurstrandarinnar og suðurströndinni eru nærri því engir firðir. Hæðarmunur sjóarins um flóð og fjöru við strendur Íslands er 6—10 eða 12 fóta. Við norðurströndina liggur opt hafís á vorin og fram á sumar, sem fyllir firðina, og mœna jakarnir hátt upp úr hafi eins og fjöll. Hafísinn liggur frá landinu 10 mílur út í haf, og stundum 30 mílur. Í honum eru bæði jakar úr ísbreiðum þeim, er þekja norðuríshafið milli Grœnlands og Spitsbergen, og jökull, sem víða á ströndum Grœnlands skagar fram á sjó, og losna við hann afarstór jökulstykki, er falla niður í hafið, og rekast þar fyrir straumi og vindi, og lemjast af sjóaröldum, unz þau fá margs konar skringilega lögun, þangað til nokkur þeirra rekast að Íslandi, einkum að Horni og á Ísafjörð, og frjósa saman við hinn ísinn. Allopt rekur ísinn fyrir straumi yfir til austurstrandarinnar, þó sjaldan lengra en að Vestrahorni, og venjulega ekki svo langt; hann kemur líka sjaldan til austurlands fyr en í aprílmánuði. Einstöku sinnum leggst þó hafísinn kring um allt land, nema fra Reykjanesi til Látrabjarga, og á átjándu öld var það þrem sinnum.

Ísinn fer venjulega burt snemma á sumrin, þó eru dœmi til, að hann hefur legið þangað til fyrst í septembermánuði. Hafísinn spillir mjög fiskiveiðum og grasvexti[1]; líka tálmar hann verzlun, því skipin verða að flœkjast úti á sjó, svo mánuðum skiptir, fyrir utan ísinn, áður en þau komast á höfn, og stundum bannar hafísinn allar siglingar um Grœnlandshaf, og komast þá ekki skip til norðurlandsins.

## V.

### UM LOPTSLAG OG VEÐRÁTTUFAR.

Eptir hnattstöðu Íslands er hlýtt loptslag á suðurlandi og vesturlandi eins og á eyjum, og kemur það til af því, að ein kvísl af golfstrauminum, sem liggur gegnum Flóridusundið úr Mexikuflóa út í Atlantshaf, liggur fram hjá Færeyjum og suðurströnd Íslands til Finnmerkur[2]). Einkum her á því á veturna, hvað golfstraumurinn eykur hita. Því meðalhiti á veturna er ÷ 1,25 stig á Reaumurs hita-

[1]) Árið 1792 dróg ekki klaka úr jörðu allt sumarið.

[2]) Shr. athugasemdir eptir Irminger sjóforingja, um hraða golfstranmsins og straumana við Ísland í „Nyt Arkiv for Sövæsen", 2. b. 191.—200. bls., sbr. 87.—99. bls. Hitinn á vatninu í þessari kvísl af golfstraumnnm er nálægt Íslandi, hjerumbil 900 mílur frá Flóridnsundi, $1^{1}/_{4}^{0}$ til $3^{0}$ á hitamæli Celsins, eptir því á hvaða tímum árs það er, meiri en annarstaðar; hjá Reykjavík er því meðalhiti sjóar nærri því einu stigi meiri en meðalhiti lopts. Breiddina á þessari kvísl telja menn 50—60 mílur. Menn telja og, að golfstraumnrinn þurfi heilt missiri til að bera með sjer einhvern hlut frá Flóridusnndi til Íslands. Enn vantar nákvæmari rannsókn og lýsingu á straumi þessum.

mæli, og þá litlu minni en í Danmörk, því þar er hann ÷ 0,32 stig; og er þá veturinn á Íslandi 3° hlýrri en í þrándheimi, og 7° hlýrri en í Umea, sem liggja jafnlangt frá miðbaugi. Flestir á suðurlandi eru því eins klæddir sumar og vetur, og dönskum mönnum þykir ekki til muna kaldara þar en í Danmörku. Vetrarkuldinn er reyndar lengi, og í 5 mánuði, frá byrjun nóvembermánaðar til marzmánaðarloka, er hitastigið að meðaltölu fyrir neðan klakamark. Hitajöfnuðinn á suðurströndinni og vesturströndinni geta menn sjeð á töflu þeirri, er hjer kemur á eptir, sem samin er eptir hinum staklega nákvæmu athugunum, er Jón þorsteinsson, landlæknir, hefur gjört í mörg ár í Reykjavík, sem liggur 64° 8′ 40″ norður frá miðbaugi, og 34° 35′ 0″ vestur frá hádegisbaugi Kaupmannahafnar[1].

[1]) Hið konunglega vísindafjelag hefur látið raða niður athugunum þessum, og prenta þær með þessum titli: „Observationes meteorologicæ in Islandia factæ a Thorsteinsenio, Hafniæ 1839."

| | Reykjavík. | | | Danmörk. | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | meðalhiti. | breyting hitans á mánuði, | breyting hitans á dag. | meðalhiti. | breyting hitans á mánuði. | breyting hitans á dag. |
| | Reaum. | | | Reaum. | | |
| janúarm. …… | ÷0,97° | 13,35° | 2,83° | ÷1,13° | 13,34° | 2,98° |
| febrúarm. …… | ÷1,64 | 14,35 | 2,88 | ÷0,60 | 13,48 | 3,03 |
| marzm. …… | ÷0,95 | 15,77 | 3,38 | 1,16 | 14,33 | 4,34 |
| aprílm……… | 1,98 | 14,70 | 3,95 | 4,91 | 15,62 | 7,31 |
| maím. …… | 5,69 | 13,70 | 4,16 | 9,54 | 17,00 | 8,99 |
| júním. …… | 8,70 | 12,90 | 5,04 | 12,85 | 16,92 | 9,39 |
| júlím……… | 10,75 | 11,90 | 5,25 | 14,56 | 15,94 | 7,35 |
| ágústm. …… | 9,27 | 11,55 | 5,05 | 14,18 | 14,08 | 6,67 |
| septemberm. … | 6,42 | 13,12 | 5,27 | 11,36 | 14,06 | 6,69 |
| októberm. …… | 2,18 | 12,55 | 3,73 | 7,68 | 13,69 | 5,56 |
| nóvemberm. … | ÷0,69 | 13,62 | 2,58 | 3,75 | 13,36 | 2,71 |
| desemberm. .. | ÷1,15 | 13,60 | 2,35 | 0,77 | 12,59 | 2,42 |
| veturinn …… | ÷1,25 | 13,70 | 2,02 | ÷0,32 | 13,14 | 2,81 |
| vorið ……… | 2,24 | 14,79 | 3,83 | 5,20 | 15,65 | 6,88 |
| sumarið …… | 9,57 | 12,12 | 5,11 | 13,86 | 15,65 | 7,80 |
| haustið …… | 2,64 | 13,10 | 3,86 | 7,60 | 13,70 | 4,99 |
| allt árið…… | 3,30 | 13,45 | 3,71 | 6,58 | 14,54 | 5,02 |

Miklu kaldara er á norðurlandi og austurlandi, og kemur það til af því, að kaldur straumur, sem kemur frá Spitsbergen fram hjá Jan Mayen, liggur að norðurhluta Íslands, og ber þangað bæði hafís og kulda; en á austurlandi eru jöklar miklir, sem ná nærri því ofan að ströndum, og veldur það kuldanum. Munurinn á hitanum fyrir norðan og austan og fyrir sunnan og vestan er $3^0$ á hitamæli Reaum., og undir eins er meðalhiti ársins $= 0^0$ á Akureyri við Eyjafjörð, sem liggur þó ekki nema $1^0$ 32′ norðar en Reykjavík, en sumarhiti $6^0$, og vetrarkuldi $\div 5^0$, álíka og við Norðurhöfða í Noregi, þó að Akureyri liggi hjerumbil $5^0$ eða 75 mílum sunnar.

Þó að nú veturinn á suðurlandinu sje ekki miklu kaldari en í Danmörku, er sumarið það þó, og meðalhiti þess er jafnvel $1^1/_2$ stigi minni en í Þrándheimi. Mestur er þó munurinn á haustin, eins og sjá má á töflu þeirri, sem hjer stendur að framan. Mjög rigningasamt er á suðurlandi, einkum á veturna; kemur það til af því, að gufan úr hafinu, sem verður heitara, eins og áður er sagt, sökum golfstraumsins, kólnar í loptinu, og fellur niður í regni, og valda því hin stóru jökulfjöll. Það einkennir einkum veðráttufar á Íslandi, að þar eru tíðar þokur og veður östöðugt. Staðviðri í 6 daga samsvarar logn einn dag, kæla einn dag og stórviður einn dag. Eptir blæjalogn koma stundum allt í einu ógurlegir fellibyljir, sem rjúka yfir landið, og bera með sjer sand og ösku, og gjöra landsbúum með því baga og óhagræði. Miklar og skjótlegar hitabreytingar eru líka almennar, og einkum kemur opt bitur næturkuldi á sumrin í dölunum eptir örmagnandi hita. Hafvindar eru líka meinlegir strandabúum, því þeir bera með sjer saltkynjuð efni, sem gjöra

þá bitra, og hafa þeir því ill áhrif á allan grassvörð. Tafla sú, er hjer kemur, er gjörð eptir athugunum þeim, sem áður er um getið, eptir Jón Þorsteinsson, landlækni; þó að þær sjeu gjörðar í Reykjavík, má þó ætla, að þær geti gilt um veðráttufar á öllu landi; þó eru rigningarnar miklu meiri á suðurlandi en norðurlandi[1]).

---

[1]) Til að sýna hvað mikið rignir. er mæld dýptin á regnvatninu, og er það gjört þannig, að regnmælirinn er settnr á bersvæði. Snjórinn er þíddur og talinn með.

| | Ísland. | | | | | Danmörk. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | regndýpt. | tíðleiki norðanvinds á við sunnanvind. | tíðleiki austanvinds á við vestanvind. | loptþyngd að meðaltöln. | loptþyngdarmnnnr á mánuði. | regndýpt. | tíðleiki norðanvinds á við sunnanvind. | tíðleiki austanvinds á við vestanvind. | loptþyngd að meðaltölu. | loptþyngdarmunur á mánuði. |
| janúarm. | 33,64‴ | 1 : 0,6 | 1 : 0,1 | 331,78‴ | 30,94‴ | 14,94‴ | 1 : 1,4 | 1 : 1,3 | 336,13‴ | 16,18‴ |
| febrúarm. | 31,32 | 1 : 0,4 | 1 : 0,1 | 329,98 | 35,65 | 13,36 | 1 : 1,7 | 1 : 1,5 | 336,28 | 15,43 |
| marzm. | 33,62 | 1 : 0,5 | 1 : 0,1 | 331,58 | 32,41 | 9,36 | 1 : 1,2 | 1 : 1,1 | 337,19 | 14,79 |
| aprílm. | 20,88 | 1 : 0,3 | 1 : 0,0 | 333,99 | 28,37 | 12,90 | 1 : 1,2 | 1 : 1,02 | 336,47 | 13,10 |
| maím. | 20,88 | 1 : 0,5 | 1 : 0,2 | 334,68 | 18,30 | 19,34 | 1 : 1,1 | 1 : 1,1 | 337,72 | 9,48 |
| júním. | 16,24 | 1 : 0,5 | 1 : 0,7 | 334,60 | 21,46 | 20,24 | 1 : 1,3 | 1 : 2,8 | 337,51 | 9,64 |
| júlím. | 20,88 | 1 : 0,4 | 1 : 0,6 | 334,26 | 17,55 | 27,11 | 1 : 1,4 | 1 : 3,6 | 336,96 | 8,28 |
| ágústm. | 27,84 | 1 : 0,6 | 1 : 0,3 | 333,96 | 16,01 | 30,26 | 1 : 2,0 | 1 : 3,2 | 336,63 | 8,74 |
| septemberm. | 27,08 | 1 : 0,4 | 1 : 0,1 | 332,31 | 24,91 | 28,64 | 1 : 1,8 | 1 : 1,6 | 337,01 | 11,78 |
| októberm. | 34,80 | 1 : 0,2 | 1 : 0,2 | 331,67 | 29,72 | 22,17 | 1 : 1,8 | 1 : 1,6 | 337,76 | 12,72 |
| nóvemberm. | 33,64 | 1 : 0,3 | 1 : 0,1 | 331,96 | 27,22 | 19,42 | 1 : 1,4 | 1 : 1,7 | 337,28 | 15,51 |
| desemberm. | 35,96 | 1 : 0,3 | 1 : 0,1 | 329,61 | 31,26 | 16,53 | 1 : 1,4 | 1 : 1,2 | 336,26 | 15,38 |
| veturinn | 100,92 | 1 : 0,4 | 1 : 0,1 | 330,46 | 32,62 | 44,83 | 1 : 1,5 | 1 : 1,3 | 336,22 | 15,66 |
| vorið | 75,38 | 1 : 0,4 | 1 : 0,1 | 333,41 | 26,36 | 41,60 | 1 : 1,2 | 1 : 1,1 | 337,46 | 12,46 |
| sumarið | 64,96 | 1 : 0,5 | 1 : 0,5 | 334,27 | 18,34 | 77,61 | 1 : 1,5 | 1 : 2,9 | 337,03 | 8,89 |
| haustið | 95,52 | 1 : 0,3 | 1 : 0,1 | 331,99 | 27,28 | 70,23 | 1 : 1,6 | 1 : 1,6 | 337,35 | 13,34 |
| allt árið | 336,78 | 1 : 0,4 | 1 : 0,2 | 332,53 | 26,15 | 234,27 | 1 : 1,3 | 1 : 1,7 | 337,02 | 12,59 |

þrumuveður og eldingar eru mjög sjaldgæf, og komi þau, er það nærri því eingöngu á veturna. Þar á móti sjást norðurljós mjög opt; þau eru á að sjá eins og logar eða bogar, eða eins og eldstólpar, með alls konar litabrigðum; stundum leiptra þau um allt himinhvolfið, en liggja þó optast bogadregin úr landnorðri gegnum hvirfilpunkt. Þessi fagra loptsjón styttir mönnum stundir um vetrartímann, þegar dagarnir eru svo ógnarlega stuttir[1]). Syðst á Íslandi er stytztur dagur ekki lengri en 4 stundir, og nyrðst á landinu kemur sól ekki upp í viku um vetrarsólhvörf, en þó er hún um þetta leyti svo nærri sjóndeildarhringnum, að um hádaginn er því nær full dagsbirta. Lengsti dagur er á suðurlandinu 20 stundir, og nyrðst á landinu sezt ekki sól í viku um sumarsólhvörf, og langan tíma fyrir og eptir sólhvörf er svo bjart alla nóttina, að sjá má til að lesa og skrifa.

[1]) Í „Physicalische und statistische Beschreibung von Island“ eptir Eggers, professor, sem er prentuð 1786 (það kom aldrei á prent meira en fyrri partur af fyrsta bandi), eru rannsóknir um norðurljós á 247.—351. bls., en 229.—247. bls. eru um hita, loptþyngd og vinda, og 351.—414. bls. eru um ýmsar loptsjónir. Í ritinu eptir V. Lottin, sem áður er nefnt á 12. bls., eru 1.—410. bls. skýrslur um athuganir um segulafl jarðar (það er að skilja um misvísun og halla segulnálarinnar, breyting, sem verður á misvísuninni á dag, og aðdráttarafl segulsins), og 410.—492. bls. eru athuganir um loptþyngd, hitamælingar og loptsjónir. Stutt lýsing á loptslagi Íslands er á 112.—118. bls. í hinn ágæta riti eptir dr. Schleisner: „Island undersögt fra et lægevidenskabeligt Synspunkt“, og hefur það rit gagnað mjer mest, og jeg hef farið meir eptir því en nokkru öðru, sem jeg hef haft fyrir mjer, til að semja þenna kafla.

# VI.

## UM FÓLKSTÖLU OG MANNFJÖLGUN.

Fólkstalan á Íslandi[1]) var, þegar seinast var talið, 2. d. nóvemberm. 1845, 58558 og ef við það er lagt, hvað margir fleiri eru fæddir en dánir, síðan að talið var, þá telst svo til, að fólkstalan á Íslandi fyrst á árinu 1850 hafi verið hjerumbil 60000, það er að skilja:

í suðurumdœminu.......... 21730
í vesturumdœminu......... 14985
í norður- og austurumdœminu 23019.

þegar nú hjerumbil $^3/_4$ hlutar af öllu Íslandi eru með öllu óbyggðir, þá má nærri geta, að menn fá ekki rjetta hugmynd um, hvað þjettbýlt er, þó sagt sje, að ekki sjeu nema 33 menn á hverri ferhyrningsmílu. það er reyndar ekki hœgt að segja nákvæmlega, hvað margir eru á hverri ferhyrningsmílu í þeim hluta lands, sem byggður er, því menn vita ekki nákvæmlega stœrð hans, en menn geta ætlað

[1]) það elzta, sem til er nm fólkstöln á Íslandi, er frá 11. öld, og vorn þá eptir töln Gissurar byskups 4560 bœndur, er þingfararkaupi áttu að gegna. þó að menn nú bæði í gömlum og nýjum ritnm hafi viljað ráða af þessu, að þá hafi verið á Íslandi 100000 innbúa, þyrfti þó að fœra meiri sönnur á það mál (sbr. „Island i det 18. Aarhnndrede“, eptir Magnús Stephensen, 267. bls. og þar á eptir). þó má að minnsta kosti fullyrða, að Ísland hefnr verið eins fjölbyggt í fornöld, eins og það er nú.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Árið | 1703 | var fólkstalan | 50444 |
| — | 1769 — | — | 46201 |
| — | 1801 — | — | 47240 |
| — | 1825 — | — | 51704 |
| — | 1835 — | — | 56035 |
| — | 1840 — | — | 56094 |
| — | 1845 — | — | 58558. |

á, að það sjeu hjerumbil 130 menn á ferhyrningsmílunni, þar sem byggt er, en meðaltalan á fólki í bjeruðum í konungsríkinu Danmörku er 1641 á hverri ferhyrningsmílu. Kaupstaður er einungis einn á landinu, og er það Reykjavík, þar eru 1149 menn (árið 1845 voru þar 961, árið 1840 890, og 1801 að eins 307). Nærri því allt fólk á Íslandi er því sveitabúar, en þar á móti býr 1/5 af öllu fólki í Danmerkur konungsríki í kaupstöðum. Í Danmörku eru að jafnaði taldir 5 menn á hverju heimili, en 7 á Íslandi, og kemur það til af því, að atvinnuvegirnir eru þannig, að búandi menn verða að halda mörg hjú, og eru þau ekki allsjaldan gipt[1]). Engan veginn er góður jöfnuður á tölu karla og kvenna á Íslandi, því konur eru þar miklu fleiri.

Árið 1835 var hlutfallið milli tölu karla og kvenna
eins og 1000: 1137
— 1840 — — 1000: 1106
— 1845 — — 1000: 1099.

Eins og sjá má á þessum tölum, er þessi mismunur að færast dálítið í lag. Ástæðan fyrir því, að konur eru svo miklu fleiri, er einkum sú, að svo margir menn drukkna á sjó, og verður seinna skýrt nákvæmar frá því; það er því ekki fyrri en á 20—25 ára aldrinum, að töluvert fer að bera á þessum mismun á tölu karla og kvenna. Af öllu fólki á Íslandi eru 46 af hverju hundraði á bezta aldrinum, frá tvítugu til sextugs, og eru í fáum löndum jafnmargir að tiltölu á þeim aldri, og þó eru það fleiri í Danmerkur konungsríki.

---

[1]) Árið 1849 voru 3338 menn á Íslandi í húsmennsku.

Á 5 ára bilinu 1845—1849 voru að meðaltölu gefin saman 433 hjón á Íslandi, og er því hlutfallið milli giptinga, sem verið hafa þar á hverju ári og allrar fólkstölu eins og 1: 138, en í Danmörku er hlutfallið eins og 1: 125.

Gipt hjón voru á Íslandi 8735 árið 1845, þegar fólk var seinast talið, og var þá tala giptra hjóna á móti allri fólkstölunni eins og 1: 6,99, en í Danmörku var það eins og 1: 5,99.

Meðaltala skilgetinna barna, sem fæddust á 10 ára bilinu 1840—1849, hefur verið 1820 á ári, óskilgetinna barna 294, og er þá 7. hvert barn óskilgetið.

Mikill munur er á því, hvað mörg börn fæðast á Íslandi á ári. Konur eru þar mjög frjófsamar; en þegar sóttir, óáran og hallæri ganga í landinu, fæðast færri börn (sbr. töfluna á 80. bls. í ritgjörðinni eptir Schleisner: „Island undersögt fra et lægevidenskabeligt Synspunkt“); það er því eptirtektaverður munur á tölu fæddra barna á einstökum árum (sbr. töfluna, sem á við 74. bls. í ritgj. eptir Schleisner). Árin 1785, 1786, 1813 og 1814 fæddust einungis 604 fyrsta árið, 925 annað árið, 980 þriðja árið og 983 fjórða árið, en árið 1831 fæddust þar á móti 2609 og árið 1834 2552; á 5 ára bilunum 1782—1786 og 1812—1816 fæddust einungis 5189 fyrri 5 árin, og 5588 seinni 5 árin, en á 5 ára bilunum 1797—1801 og 1827—1831 fæddust þar á móti 10056 fyrri 5 árin, og 11458 seinni 5 árin. Þó að það, sem áður er talið, tálmi opt frjófsemi íslenzkra kvenna, eru þær þó miklu frjófsamari en danskar konur, og má sjá það betur á samanburði þeim, er hjer kemur á eptir, sem byggður er á hlutfalli því, er

var á 10 ára bilinu 1838—1847. Tala á skilgetnum börnum 100 giptra kvenna frá tvítugu til fimmtugs:

| á Íslandi | í Danmörku |
|---|---|
| 28,2 | 23,6 |

Tala á óskilgetnum börnum 100 ógiptra kvenna á sama aldri:

| á Íslandi | í Danmörku |
|---|---|
| 4,8 | 3,8 |

þessi mikla frjófsemi íslenzkra kvenna veldur því, að fólkstala á Íslandi fer vaxandi, þó það gangi seint, þrátt fyrir allar drepsóttir, sem svo opt hafa gengið þar í landi. Eptir að Stórabóla, sem gekk 1707, hafði drepið niður 18000 manna, voru ekki eptir nema 34000, en árið 1750 var fólkstalan undir eins orðin 50700.

það er eins á Islandi og annarstaðar, að fleiri óskilgetin börn fæðast andvana en skilgetin; en þó er tala þeirra barna, sem fæðast andvana, svo miklu meiri i Danmörku en á Íslandi, að af hverju hundraði fæðast 30 fleiri skilgetin börn andvana, og 15 fleiri óskilgetin, í Danmörku. Meybörn og sveinbörn fæðast að tiltölu álíka og í Danmörku, það er að skilja eins og 100: 106. Af því að svo opt ganga sóttir og óáran á Íslandi, er það mjög misjafnt, hvað margir deyja þar á ári. Árin 1790 og 1796 dóu, þegar talin eru með börn, sem fæddust andvana, ekki nema 779 fyrra árið og 786 hitt árið. Á tímabilinu 1750—1846 voru 14 ár, að færri dóu en 1000 á ári; en árið 1758 dóu 3579, 1784 dóu 5346 og 1785 5626, að vjer ekki nefnum Stórubólu, sem gekk árið 1707, og sagt er að hafi drepið 18000 manna. Á þessari öld hefur manndauði að sönnu minnkað, en þó deyja enn mjög margir, og valda því landfarsóttir; af 1000 börnum, er fæðast

samtíða, lifa ekki fleiri eptir 14 ár en 569, en í Danmörku lifa jafnmörg sveinbörn af 1000, er fædd eru um sama leyti, eptir 39 ár, og af 1000 meybörnum eru 569 á lífi, að liðnum 40 árum. Ef ekki dæju fleiri á Íslandi úr landfarsóttum en í Danmörku, yrði aldur kvenna nærri því eins hár og í Danmörku — það er að skilja meðalaldur þeirra yrði 48 ár, en í Danmörku er hann 51 ár —, en samt næðu karlmenn ekki jafnháum aldri, því meðalaldur þeirra yrði 37 ár, en meðalaldur karlmanna í konungsríkinu er 47,62 ár.

Þegar menn gæta að manndauða á Íslandi, er það einkum tvennt, er menn furðar á, bæði, að aldur kvenna, sem reyndar í öllum löndum er lengri en aldur karlmanna, er þar svo miklu lengri, og það annað, að svo afarmargt deyr á fyrsta ári, bæði af sveinbörnum og meybörnum, einkum þegar það er borið saman við Danmörku, því þar deyja þriðjungi færri börn á fyrsta ári. Það veldur einkum þessum mismun á aldri karla og kvenna, að svo margir karlmenn drukkna á fiskiveiðum, meir enn 50 á ári, eða 35,1 af hverjum 10000 karlmanna frá 15 ára til 60, en í Danmörku drukkna ekki nema 6,7 af hverjum 10000 á þessum aldri, og eru þá þeir, sem drukkna á Íslandi, 1/4 af öllum karlmönnum, sem deyja á bezta aldri. Flestir drukkna að tiltölu í fiskiverunum, eins og við er að búast, og á vesturlandi. Af öðrum slysum deyja að tiltölu helmingi fleiri á Íslandi en í Danmörku. Þar á móti ber það mjög sjaldan við, að menn ráði sjer þar sjálfir bana.

Hinn mikli barnadauði á fyrsta árinu kemur bæði til af barnaveiki þeirri, sem heitir ginklofi, og skal hans síðar getið, sem ásamt öðrum barnasjúkdómum veldur

láti 30 af hverju hundraði allra þeirra sem deyja — en í Kaupmannahöfn deyja ekki nema 18 úr barnaveikindum af hverjum 100 sem deyja —, og af röngu háttalagi á uppfóstri barna. Íslenzkar konur fóstra ekki sjálfar börn sín, nema konur í Reykjavík og öðrum kauptúnum og bláfátækar konur í fiskiverunum, sem ekki hafa kúamjólk. Barninu er undir eins, þegar það er fætt, komið fyrir fyrstu vikurnar, og stundum í heilt ár, annaðhvort hjá ljósunni ellegar einhverri annari konu, og hún elur það með kúamjólk. Það hefur líka án efa ekki lítil áhrif á heilsu barnsins, að venjulega er farið með það til skírnar, næsta daginn eptir að það er fætt, hvernig sem veður er, til kirkjunnar, sem opt liggur langt í burtu*).

Manndauðinn á Íslandi kemur einkum til af því, að þar hafa svo opt gengið stórsóttir. Í engu landi í norðurálfunni hafa gengið svo margar mannskæðar drepsóttir, allt fram á þessa tíma, eins og á Íslandi[1]). Þessar drepsóttir, sem gjörsamlega hafa tekið fyrir alla framför í landinu, hafa sumar flutzt til landsins á útlendum skipum, en sumar eru þær innlendar. Af innlendu sóttunum er tíðust kvefsótt, sem stundum er hæg, en stundum æði mannskæð. Nærri því á hverju vori, og stundum líka á haustin, gengur kvef á Íslandi, sem varla má heita kvefsótt, og er öldungis eins og kvef það sem maður fær, þegar slær að manni, nema að því leyti, að það er næmur kvilli, og að því leyti, að það sneiðir hjá dönskum mönn-

[1]) Frá 1306—1846 eru talin 134 sóttarár.

*) Þetta tíðkast án efa ekki víða á Íslandi nú á dögum, því presturinn er optast sóttur, eða það er beðið eptir góðu veðri, áður en farið er með barnið til skírnar.

Þýð.

um, sem ekki hafa verið lengi í landinu, og jafnvel Íslendingum, sem eru nýlega komnir heim úr Danmörku. En auk þessa kvefs, sem gengur á hverju ári, kemur í landið kvefsýki, sem optast er skæð, og líða venjulega hjerumbil 10 ár á milli (seinast gekk kvefsótt þessi árin 1843, 1834, 1825 og 1816. Kvefsótt þessi gengur á örstuttum tíma um allt land, og tekur í einu, að kalla má, allt landsfólk, og komast mjög fáir hjá henni, en hún sneiðir hjá Dönum og öðrum útlendum mönnum. þegar eitthvert sóttarferli gengur þannig yfir land um sumartímann, og fjöldi manna liggur rúmfastur, geta menn ekki starfað að heyvinnu, og spillir það kvikfjárræktinni. þessari drepsótt eru samfara sárindi í kverkunum, hlustarverkur, máttleysi og kalda; hún er mjög hættuleg ungbörnum, þar á móti deyja sjaldan úr henni önnur börn, yngri en tíu ára. Úr kvefsótt þessari deyja fleiri konur en karlar; hún er því mannskæðari, sem hún tekur eldri menn, og flestir deyja úr henni á sextugsaldri. Manndauðinn, sem hún hefur í för med sjer, hefur farið vaxandi í hvert skipti, sem hún hefur komið á seinni tímum; tala allra, sem deyja á Íslandi, þegar heilsufar manna er gott, er 1000—1200 á ári; en þessi kvefsótt jók tölu þeirra sem dóu, svo það

árið 1816 urðu 1584,
— 1825 — 1621,
— 1834 — 2445,
— 1843 — 3227.

Af drepsóttum þeim, sem flytjast til landsins á skipum, er engin, sem hefur komið eins opt, og valdið eins miklum manndauða, og bólan; hún hefur geysað 19 sinnum að öllu samtöldu síðan árið 1306, og hefur opt verið

svo árum skiptir, og drepið innbúana niður í hrönnum, einkum árið 1707, þegar hún drap niður meira en þriðjung af öllum landsbúum; hún var reyndar farin að verða linari, áður en tekið var til að setja kúabólu, og seinast, þegar hún kom til landsins, árin 1839 og 1840, var hún mjög lin, og það tókst líka, að girða fyrir hana, svo að hún kom ekki víðar en á suðurland. Eptir því, sem dr. Schleisner telst til, hafa dáið 47622 menn úr ýmislegum drepsóttum á tímabilinu 1750—1846, og eru það eins margir, eins og tala allra landsbúa hefur verið að meðaltölu á þessum sama tíma. Af þessum 47622 dóu 25938 á næstliðinni öld og 21684 á þessari öld; en þegar gætt er að, að af þeim, sem dóu á 18. öldinni úr drepsóttum, voru 6036, sem dóu úr harðæri, er kom eptir eldgosið úr Skaptárjökli árið 1783, þá liggur það í augum uppi, að sjálfar drepsóttirnar hafa að tiltölu verið miklu mannskæðari á þessari öld en á seinni hluta 18. aldar. Ef menn nú leita að tilefni sóttferla þessara, eru þau ekki að neinu leyti landslagi að kenna. Þeir, sem búa nærri þeim stöðum, þar sem brennisteinn er í jörðu, eða þar, sem hverar eru, eru eins heilsugóðir og þeir, sem annarstaðar búa; ekki geta menn heldur sjeð neinn mun á heilsufari manna, sem búa á fjöllum uppi, og þeirra sem búa í dölunum. 8462 eða hjerumbil $^1/_5$ af öllum þeim, er hafa dáið úr drepsóttum á þessum tíma, sem áður er nefndur, hafa dáið úr þeim sóttum, sem flutzt hafa til landsins með kaupförum (það er að skilja: 3036 úr bólu, 2026 úr mislingasótt, 1468 úr flekkusótt og 1932 úr andarteppu — berringshósta —), og hefði því mátt gjöra við miklu af manndauðanum með góðum sóttvörnum, en íllt er reyndar að koma þeim svo fyrir á Íslandi, að

þær tálmi þá ekki ofmjög verzlun landsins. Af innlendum sóttum dóu á þessum tíma (1750—1846) 9067 úr kvefsótt, 4867 úr landfarsótt og 16441 úr sjúkdómum, sem hafa komið af hungri, og er það hræðilegt til að vita. Flestir af þeim, sem hafa dáið úr hungri, dóu á næstliðinni öld, og kom það bæði til af fyrirhyggjuleysi Íslendinga og hirðuleysi þeirra með kvikfjárræktina, en einkum olli því einokunarverzlunin og margs konar rangt fyrirkomulag í stjórnarefnum, sem dróg úr framtakssemi og fjáröflun manna, og leiddi af því fátækt, er gjörði mönnum harðæri og önnur bágindi miklu tilfinnanlegri, en þau annars hefðu verið. En af því að þetta hefur breytzt mikið til batnaðar á seinni tímum, er það vonandi, að þó að viðlíka óáran, eins og opt hefur áður komið í land[1], bæri aptur að höndum, gæti það ekki valdið eins miklum bágindum manna á meðal eins og áður[2]).

Af því að svo mikill munur er, eins og áður er sagt, á tölu þeirra, sem fæðast og deyja á ári, verður

[1]) Mest óáran kemur, þegar eldgos eru, eða þegar hafís liggur við land; líka getur fjársýki, fiskileysi, langir og strangir vetur og drepsóttir valdið miklu harðæri. Sandfok, vatnsflóð, skriður og jökulhlaup geta ekki gjört tjón nema á einstöku stöðum.

[2]) Sbr. ritgjörð eptir Hannes byskup, er samin er seint á 18. öld: „Um mannfækkun af hallærum á Íslandi“ Halldór Einarsson hefur snúið henni á dönsku, og er útleggingin prentuð í Kaupmannahöfn árið 1833.

Þar segir, að í þau 920 ár, sem Ísland hafi verið byggt, hafi verið 90 hörð ár, en þó hafi ekki meira en helmingur þeirra valdið mannfelli. Það er reynt að óáran veldur miklum manndauða tvisvar á hverri öld. Sízt eru menn í Gullbringusýslu og Snæfellsnessýslu færir um að standast slík harðæri, því þar eru margir þurrabúðarmenn, sem hvorki hafa jörð eða skepnur. Þó að góð ár sjeu, getur verið hart í stöku sýslu, en þar á móti eru engin dæmi til, að neitt harðindaár hafi gjört mikið tjón á öllu landi.

líka mjög mikill munur á fólksfjölguninni. Árin 1803 og 1843 minnkaði fólkstalan, fyrra árið um 1,63 og seinna árið um 1,99 af hverju hundraði; þar á móti jókst fólkstalan árin 1830 og 1831, fyrra árið um 2,39 og seinna árið um 2,41 af hverju hundraði. það hefur ekki verið nema eitt ár á þessari öld, að fólk hefur fækkað í Danmörku, og ekki nema eitt ár, að fólkstala hefur aukizt meir en um $1^1/_2$ af hverju hundraði; en á sama tímanum hafa verið 13 ár, að fólk hefur fækkað á Íslandi, og 10 ár, að fólkstala hefur aukizt meir en um $1^1/_2$ af hundraði. Að öllu samtöldu er fólksfjölgunin mjög lítil á Íslandi. Á næst liðinni öld fækkaði fólk á Íslandi, 1703—1801, jafnvel um 6,42 af hundraði, og á þessari öld, 1801-1849, hefur fólkstalan aukizt um $25^1/_2$ af hundraði, en á sama tímanum hefur fólk í Danmörku fjölgað um 52 af hundraði. það er hörmulegt til þess að vita, hvað seint fólki fjölgar á Íslandi sökum drepsóttanna, því það má, fullyrða, að landið geti fætt miklu fleira fólk, en þar er, og opt er kvartað yfir því, hvað þar sje fátt af vinnandi fólki.

---

# VII.

## UM ÆTTERNI ÍSLENDINGA OG MÁL ÞEIRRA.

Ekki eru til frásagnir um, að menn hafi stigið fæti á Ísland, fyr en árið 795, þá komu þangað írskir munkar. Að einstöku kristnir menn frá Írlandi hafi búið í landinu, þegar Norðmenn tóku að nema þar land, má ráða af 1. kap. í Íslendingabók Ara prests hins fróða þorgilssonar, þar segir svo: „þá voru hjer menn kristnir, þeir er

Norðmenn kalla Papa, en þeir fóru síðan á braut, af því að þeir vildu eigi vera hjer við heiðna menn, og ljetu eptir bækur írskar og bjöllur og bagla.“ Ekki hafa þó menn þessir að líkindum verið margir. Rúmum 50 árum seinna, hjerumbil á miðri 9. öld, rak víking, er Naddoddur hjet, til Íslands, og kallaði hann það Snæland, og sá hann engin líkindi til, að landið væri byggt. Fáum árum síðar fór Garðar Svafarsson að leita Snælands, hann sigldi í kring um landið, og komst þannig að raun um, að það var eyland. Hann lofaði mjög landið, og því fór víkingur, sem Flóki hjet, að leita landsins (868), sem eptir för Garðars var kallað Garðarshólmi. Flóki fann einnig landið, og var þar veturlangt. Um vorið, áður en hann fór heimleiðis, gekk hann upp á fjall eitt, og sá hann norður yfir fjöllin fjörð fullan af hafísum (Ísafjörð), því kallaði hann landið Ísland[1]). Þegar Haraldur hárfagri brauzt til ríkis í Noregi, stukku margir auðugir virðingamenn, sem ekki vildu þola ofríki hans, úr landi, og leituðu sjer nýrra bústaða, og því fóru menn að byggja Ísland. Árið 874 sigldu fóstbræðurnir, Hjörleifur og Ingólfur, til Íslands, sinn á hverju skipi; Ingólfur nam land fyrir sunnan, og bjó í Reykjavík; seinna fóru þangað margir aðrir menn úr Noregi. Nokkrir Svíar, Írar og

---

[1]) Sbr. ritgjörð eptir N. M. Petersen, háskólakennara: „Om Islands Opdagelse og Bebyggelse“, sem prentuð er í „Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed“, 1. b. 241.—260. bls. Sbr. einnig ritgjörð, er stendur í 1. b. af sama tímariti eptir Erasmus Müller, byskup: „Om den islandske Historieskrivnings Oprindelse, Flor og Undergang“; þar skýrir frá mörgu um landnám Íslands og um háttsemi forfeðra vorra þar í landi á fyrstu öldunum eptir landnám; en bezt kynnast menn háttum þeirra í sögunum.

Skotar gjörðu að dœmum þeirra, og segja sögurnar svo frá, að árið 920 hafi land verið albyggt. Mál það, sem forfeður vorir töluðu, helzt enn óbreytt þar í landi, og hver íslenzkur bóndi getur enn lesið gömlu sögurnar, er flestar eru ritaðar á 12. og 13. öld, og skilja því ekki Danir neitt í því máli, nema þeir læri það. Íslenzka er við höfð í kirkjunni, skólanum og í lagastörfum á landinu, og verða því Danir, sem vilja komast til embætta á Íslandi, að fœra sönnur á, að þeir kunni hana.

---

## VIII.

### UM HÚSAGJÖRÐ ÍSLENDINGA OG AÐRA HÁTTSEMI.

Fá hús á Íslandi eru gjörð úr steini, og kemur það til af því, að það hefur þótt of dýrt, að flytja þangað tígulstein og veggjalím, og líka hefur verið of fyrirhafnarmikið að hafa hraungrýti til húsagjörðar, því það er íllt að vinna íslenzkt hraungrýti, og menn yrðu opt að flytja þess konar grjót langt að. Í Reykjavíkurbœ eru 60 hús úr trje*), og í öðrum kauptúnum eru líka timburhús; sumir embættismenn, einkum sýslumenn, búa líka í þess konar húsum. Öll önnur hús á Íslandi eru hlaðin, annaðhvort úr tómum hnausum (strengjum), og er það heit-

*) Húsin hafa fjölgað þó nokkuð seinustu árin, og Reykvíkingar eru ekki farnir að horfa í kostnaðinn, heldur hafa þeir byggt nokkur hús úr tígulsteini, og er vonandi að þeir haldi því fram.

Þýð.

ara en steinhús, eins og þörf er á í svo köldu landi, eða þau eru hlaðin, sitt lagið úr hvoru, torfi og óhöggnum steinum, eða eingöngu úr óhöggnum steinum. Húsin eru þakin með torfi, og eru því íslenzku húsin græn og grasi vaxin á sumrin, og þekkjast ekki frá túninu á öðru en því, að hærra her á þeim, og opt sjá menn gripi á heit uppi á húsunum*). Menn hafa nú reyndar á seinni tímum tekið að vanda húsagjörð, og það á eflaust mikinn þátt í því, að færri hafa dáið um nokkra tugi ára að undan förnu, en þó hefur fastheldni Íslendinga við gamlar venjur eins í þessu sem öðru staðið þeim fyrir framförum, og öll húsagjörð þyrfti því enn að taka miklum umhótum. Íslenzkur hær er opt svo til húinn, að það eru 4 lítil hús, og er eitt herhergi í hverju, 3 eða 4 álnir að hæð; á milli þessara fjögra smáhúsa eru göng, og liggja sín 2 húsin hvorumegin. Eitt af þessum fjórum húsum er haft fyrir eldhús, og er á því annaðhvort ferstrendur strompur, sem rekinn er saman úr horðum, ellegar að til þess er höfð hotnlaus tunna, og út um þenna stromp leggur reykinn. Húsið á móti eldhúsinu er kallað húr, þar eru geymd matvæli. Þriðja herbergið er stofa; hjá efnuðum mönnum er hún þiljuð innan og með fjalagólfi, þar er upp húið rúm, og venjulega dálítið horð og fáeinir stólar eða að minnsta kosti nokkrar kistur, til að sitja á. Í húsinu þar á móti eru geymdar kistur og önnur húsgögn. Uppi yfir þessum tveimur herhergjum er lopt, og er gengið upp í það úr hæjargöngunum upp

*) Óvíða eru bæir svo lítilfjörlegir, eins og hjer segir, en varla má þó ofsögnm segja af því, hvað illa er byggt sumstaðar, og hvað skeytingarlausir menn eru með að verja bæjarhúsin fyrir gripum. Þýð.

um lúkugat, sem ekki er stœrra en 1 alin á hvern veg, og uppi á þessu lopti, sem er 3—4 álnir á hæð, og kallað er baðstofa, situr fólkið, þegar það er inni*). Rúmin standa með báðum hliðunum að endilöngu. Rúmstœðin eru rekin saman úr borðum; þau eru venjulega svo stór, að 2 eða 3 menn geta sofið saman, og er optast sofið tilfœtis, þegar fleiri en einn eru í rúmi. Rúmfötin eru optast fiðursængur og ullarrekkjuvoðir, en fátœklingar liggja á gæruskinni, sem breitt er ofan á hey, og hafa ofan á sjer þykkt brekán. Gamla vananum, að hjónin, börnin og vinnuhjúin, bæði konur og karlar, sofi allt í sama herberginu, er haldið enn víðast hvar hjá alþýðu manna á Íslandi, en það er þó allvíða, að baðstofan er þiljuð sundur, og að húsbœndurnir sofa í öðru herbergi en hjúin. Ef íslenzkur maður kemur á bœ á náttarþeli, er honum vísað til sængur, eins og í fornöld, innan um heimafólkið; þessi venja er enn hneyxlanlegri fyrir þá sök, að íslenzkir almúgamenn eru vanir að liggja berir.

Fátœkir menn hafa ekki annan húsbúnað í baðstofunni en rúmin, þau eru bæði höfð til að sofa í og sitja á þeim við vinnu, og þegar borðað er; líka hafa þeir nokkra kistla og dálítinn skáp fyrir bœkur eða annað smávegis. Efnamennirnir hafa nokkra stóla úr trje, sem stundum eru út skornir með mikilli kunnáttu, borð, en sjaldnar spegil eða slíka viðhafnargripi. Birtan kemur inn í baðstofuna í gegnum dálitla glerglugga, sem ekki verður lokið upp, og eru þeir á húshliðinni. Niðri í stofunni er stundum einn og stundum tveir gluggar,

*) Þessi lögun á íslenzkum bœjum á reyndar ekki við alstaðar á landi, og er hún víst einkum gjörð eptir bœjum á suðurlandi.
Þýð.

þeir eru sjaldan á hjörum, optast litlir, og er stór gluggatópt að þeim að utanverðu, af því að veggirnir eru þykkir. Ofna hafa Íslendingar aldrei, og eru þeir hvergi til nema í kauptúnum og hjá einstöku embættismönnum. Auk sjálfra bœjarhúsanna eru nokkur útihús, er heyra til íslenzkum bœ; þau snúa optast eins og bœjardyrnar, svo að stafnarnir á þeim standa í sömu röð og bœjardyraþilið. þessi hús eru: skemma, sem höfð er til að geyma í alls konar húsgögn o. s. frv., og smiðja, sem er á hverjum íslenzkum bóndabœ. þessi útihús eru opt áföst bœjarhúsunum, svo að einn veggur er undir tveimur húsum, og safnast snjór og regn í sundin á milli húsanna, er grefur í sundur veggina, og er því mjög rakasamt í íslenzkum bœjum. Úthýsin fyrir skepnurnar, það er að skilja: fjósið, hesthúsin og fjárhúsin eru spölkorn frá sjálfum bœnum, og sama er að segja um hjallana, sem fiskimenn hafa til að þurrka og geyma fisk í. Efnamenn hlaða stundum garð í kringum allan bœinn, og stundum stjett fyrir framan hann. Viðlíka og hjer er lýst, eru allir bœir húsaðir hjá alþýðu manna á Íslandi, og það eru ekki nema einstöku íslenzkir menn, sem búa í kauptúnum, og fáeinir embættismenn uppi í landinu, sem hafa almennileg hús úr trje, eða trje og tígulsteini, með ofnum og öðru, sem þar til heyrir. Á norðurlandi og austurlandi eru bœir stœrstir og bezt húsaðir, því að þar fæst mestur rekaviður. Verstir eru bœir þar á móti í fiskiverum, einkum kring um Snæfellsjökul, í fiskiverunum í Borgarfjarðarsýslu og Gullbringusýslu, kringum Eyrarbakka og sjer í lagi í Vestmannaeyjum. Í Vestmannaeyjum er það enn venja, að hafa gripina inni í bœnum, venjulega undir baðstofuloptinu, og eru þá opt

göt á því, til þess að hitann af gripunum geti lagt upp um þau. Til og frá annarstaðar á landi brennur þessi ósiður við hjá mestu aumingjum, og það má nærri geta, að þetta á ekki lítinn þátt í því, að auka sóðaskapinn og óþefinn í bœjunum; það eykur líka óþefinn, að hlandinu er safnað, og geymt í trjekoppum, til að þvo úr því, og að gluggarnir eru svo gjörðir, að þeim verður ekki lokið upp. Á lökustu bœjunum lekur líka niður um þakið, og er því opt gryfja á miðju gólfi, til að taka við lekavatninu, og liggur úr henni ræsi, sem hlaðið er yfir, til að veita því út úr bœnum. Einn ókosturinn á Íslandi er sá, að menn hafa þar mjög illan eldivið, Menn hafa reyndar ekki ofna, eins og áður er sagt, en optast er eldur hafður uppi í eldhúsinu allan daginn. Óvíða á Íslandi er mikill rekaviður[1]) eða birkiskógar, svo menn geti haft það til eldiviðar, og þó að það sje, er það sjaldan svo mikið, að það endist árið um kring. Móskurður er reyndar farinn að tíðkast, meir en verið hefur, einkum kringum Akureyri

[1]) Menn hafa áður haldið, að rekaviðurinn, sem einkum er fnruviður og birki, kæmi frá árbökknm í Síberíu, en í nýjum ritum, einkum í riti því, sem áður er nefnt, eptir Sartorins von Waltershausen, er það sannað, að árnar Missisippi og Missouri og árnar, sem í þær renna, sem streyma gegnum barviðarskógana í norðnrhluta vesturálfu, beri þessi trje með sjer út í Mexikuflóa, og þaðan rekur golfstraumurinn þau til Íslands, og reknr þau flest á land við Horn, útnorðnroddann á landinu, og landnorðuroddann, Langanes. Á þessnm tveimnr stöðum rekur meira, en menn þurfa á að halda, en af því að flntningar þaðan eru svo örðugir, kemur þetta öðrnm sveitum að litlu haldi. Börkurinn fer af rekaviðnnm á leiðinni, og verður viðnrinn ntan grár eins og aska. Miklu minna reknr nú á tímum, en áður hefur verið, og kemur það að líkindnm til af því, að skógarnir eru að minnka í vesturálfu. Sbr. ferðabók Eggerts Ólafssonar, sem áður er nefnd, 1. b. 511. bls., og þar á eptir.

og Reykjavík, en víða er það, að mór fæst ekki, Í íslenzka mónum er ekki mikið af jarðartegundum, en þar á móti er hann víða mjög brennusteinskenndur, og er því ekki hitamikill. Töluvert af steinkolum er á ári hverju flutt til Íslands, en mest af þeim er haft til smíða, og það er ekki nema í sumum af kauptúnunum, að kaupmenn og embættismenn hafa steinkol, til að kynda ofnana. Surtarbrandurinn er orðinn til úr gömlum mólögum og skógum; þar hafa lagzt á ofan þykk lög af móbergi og oksteinskenndum hrauntegundum, og hafa þessi lög, sem eru allt að þúsund fóta á þykkt, þrýst gömlu mólögunum ákaflega þjett saman, og gjört þau að kolum [1]). Surtarbrand-

[1]) Þessi mólög og skógar hafa í fyrstunni verið niðri í hinum eldri dölum, og þess vegna liggur surtarbrandurinn flatur; en seinna hafa dalirnir fyllzt í jarðbyltingum, og ár hafa myndað nýja dali, og sjóarföll nýja firði, og verður það þá skiljanlegt, að menn finna optast surtarbrandslögin á milli hraunlaganna, sem liggja hvert yfir öðru í klettabeltum í dölunum eða í hinum bröttu fjöllnm niður við strendurnar. Af því að svo mikið liggur ofan á surtarbrandslaginn, og það er svo þunnt, að það sjaldan er 1 – $1\frac{1}{2}$ fet á þykkt, er það ekki líklegt, að takast muni að grafa mikið af honum án mikillar fyrirhafnar. Þegar sagt er að surtarbrandurinn sje þykkri, en hjer er getið, kemur það til af því, að talin ern með svört leirlög og flögusteinslög, sem optast eru undir honum, og eru þau orðin til úr jarðveginum, þar sem mórinn hefur myndazt, eða skógurinn staðið, en þessi lög eru að engu gagni til eldiviðar. Hreinastur er sá surtarbrandur, sem orðinn er úr trjám. Þessi trje hafa opt verið 15 til 20 álnir á hæð, þangað til greinar fara að liggja út úr bolnum, og rúm alin að þvermáli. Menn geta sjeð af löguninni á trjám þessum og blöðunum, sem geymzt hafa innan um leirinn og flögusteininn, að þessar trjátegundir hafa verið elritrje, björk, álmur, hagþorn, grön, fura og aðalgrön, og sýnir það, að þegar að surtarbrandurinn myndaðist, hafa skógar og grös verið áþekk því, sem nú er í norðurhluta vesturálfu, og að öllu ólík plöntuvexti þeim, sem nú er í landinu, er líkist plöntuvexti Lappmerkur.

urinn er góður til eldiviðar, en hann er ekki að fá nema á vesturlandi og norðurlandi og lítið eitt á austurlandi, og í þessum hlutum lands fæst hann ekki nema á einstöku stöðum, og er optast svo hátt uppi í fjöllum og svo langt frá mannabyggðum, að íllt er að ná honum, og er því sjaldan notað annað af honum en það, sem á hverju ári hrynur niður úr fjöllunum um vortímann. Venjulega eldsneytið á öllu Íslandi er því sauðatað og klíningur, og spillir það mjög jarðarræktinni, og stendur þannig fyrir framförum landsins. Kúamykjan er borin út á túnið, og breidd yfir það til áburðar, og þegar hún hefur legið þar, stundum allan veturinn, og er orðin þurr, er klíningurinn tíndur saman, og borinn inn. Sauðataðið er látið safnast í fjárhúsunum, og treðst það þar undir fótunum á fjenu, og verður þykk og þjett skorpa, það er síðan stungið út á vorin í ferhyrndum hnausum, klofið, og breitt til þerris. Þetta kátlega eldsneyti er mjög saltpjeturkennt; það er nokkurn veginn hitamikið, en líka er stundum úr því nokkur óþefur, og kemur það til af því, að ull loðir í taðinu. Ekki eru þó allir, sem geta haft þetta eldsneyti, og einkum verða fátækir fiskimenn, sem hafa fáar eða engar skepnur, að vera án þess. Það má því sjá við sjóarströndina, að öllu er safnað saman, sem á nokkurn hátt verður haft til eldsneytis, t. a. m. beinum úr fiski, einkum þorskhryggjum, beinum úr sauðfje, þurrkuðu þangi, þönglum o. s. frv. Hvergi er þó eldsneytið eins íllt eins og á Vestmannaeyjum. Auk þessa, sem áður er talið, hafa menn þar einkum til eldsneytis skrokkinn af tveimur fuglategundum, lundanum og fýlunganum, sem svo ákaflega mikið er til af á eyjunum. Af lundanum er brjóstið skorið frá, og saltað, en hitt af skrokknum, innýflin og væng-

irnir er hengt upp til þerris og brennt. Af fýlunganum er tekinn hausinn og fœturnir, innýflin og vængirnir, og látið saman við kúamykju, breitt til þerris og brennt. það má nærri geta, að ódefurinn af þessu eldsneyti er óþolandi. Til ljósa hafa Íslendingar venjulega tólgarkerti eða lýsi, og er því brennt í lömpum, og leggur opt úr þeim œði mikinn ljósreyk.

það er enginn efi á því, að hin vondu húsakynni og hið óheilnæma lopt, sem er í bœjunum, hefur átt mikinn þátt í því, að sóttir hafa orðið svo skœðar á Íslandi, og ef menn fœru að húsa betur, mundi aldur manna þar í landi, sem nú er svo ógnarlega skammur, bráðum lengjast. Í ritinu eptir dr. Schleisner: „Island betragtet fra et lægevidenskabeligt Synspunkt“, sem þessi lýsing er tekin úr, er uppdráttur á hœfilegum íslenzkum bóndabœ, eptir Schytte, húsameistara; lýsing á þessum uppdrætti er á 126. bls. og þar á eptir. Margir halda að vísu, að bœir, er þannig væru byggðir, yrðu ekki nógu traustir. Húsameistarinn hefur lagað bœjasnið þetta, eins mikið og hann gat, eptir íslenzkum bœjum, eins og þeir nú eru, sem varð að vera, til þess að hœgra yrði að koma því á, af því að Íslendingar eru svo fastir á fornri venju. Ekki gætu aðrir en sœmilega efnaðir bœndur byggt bœi sína á þenna hátt. Skortur yrði reyndar á húsavið og eldsneyti, en á því mætti ráða bœtur, ef breytt yrði verzluninni, og væri þess því mjög óskandi, að stjórnin íhugaði vandlega þetta mikilvæga málefni.

Enginn matarskortur er á Íslandi, og var það því fyrirhyggjuleysi eitt, er olli því, að menn hafa dáið þar úr hungri. Eitt af því, sem einkum er haft til matar þar í landi er ósaltaður harður fiskur (þorskur, ísa, langa

o. s. frv.), sem er barinn, og jetinn hrár og smjör við, optast ósaltað, sem gangur er kominn í, og kalla Íslendingar það súrt smjör; þetta er haft til miðdegismatar. Sjaldan borða landsbúar sjálfir saltfiskinn, heldur selja hann kaupmanninum. Annar aðalrjettur, sem menn borða kvöld og morgna, er eins konar mjólkurmatur, sem kallaður er skyr; það er búið til úr undanrenningu og áum úr sauðamjólk, sem er hleypt, og ólekjan því næst síuð. Skyrið er venjulega borðað með nýmjólk út á. Mikið er búið til af skyri til vetrarforða, og er það geymt í stórum tunnum eða sáum í búrinu, og súrnar það þar innan skamms. Venjulega hafa menn mjólkurmat, einkum graut með mjólk út á, til morgunverðar og kvöldverðar. Íslendingar jeta fjarska mikið smjör, en fátækir fiskimenn, sem ekki hafa smjörið, verða að bjargast við bræðing úr tólg og lýsi. Brauð hafa menn ekki mikið á Íslandi, en það sem menn hafa, eru optast flatbrauð; mestallt mjöl, sem þeir hafa, er því haft í graut og velling. Íslendingar mala víðast hvar korn sitt í handkvörnum*). Kornið er allt flutt til landsins úr útlöndum, og er því ekki ætið, að það fæst, og víða er það, einkum á norðurlandi og austurlandi, að menn hafa fjallagrös, þegar kornið brestur; þau eru þurrkuð, söxuð, og höfð í mjölstað í mjólkurgraut eða velling. Af kjöti er einkum sauðakjöt haft til matar, það borða menn einkum á sunnudögum og helgidögum og

*) Víða eru nú vatnsmylnur farnar að tíðkast, einkum á austurlandi, og mætti hafa þær nærri því alstaðar á landi, og væri það forsjállegt, að bændur færðu sjer þannig afl vatnsins í nyt, heldur en að þreyta sig og hjú sín á því að mala í handkvörnum.

þýð.

öðrum tyllidögum, og nýtt kjöt jeta menn venjulega ekki nema um slátrunartímann, í septemberm. og októberm. Uxakjöt og selkjöt er sjaldan haft til matar. Alþýða manna hefur viðbjóð á svínsfleski, og fyrirlitlegt þykir að jeta hrossakjöt. Venjulegur matur er líka fuglakjöt og egg og blautur fiskur, sem hefur hangið svo lengi, að hann er farinn að slá sig. Ekki eru aðrar jurtir hafðar til matar að nokkrum mun en hvannir og þangtegund, sem heitir söl, og vaxa þar þó margar fleiri matjurtir af sjálfu sjer, t. a. m. súrur, skarfakál, ætifífill og kúmen; og þó að flestar káltegundir þrífist ágætlega á Íslandi, er þó ekki sáð nema ofurlitlu af næpum, gulrótum og jarðeplum. Íslendingar borða hver sjer á rúmi sínu, sinn á hverjum tíma, þegar þá langar í mat. og er hann því opt jetinn kaldur. Litlu er eytt af óhófsvörum á Íslandi, þó er kaffidrykkja allt af að færast í vöxt; stöku menn reykja tóbak, en mjög margir, bæði karlar og konur, taka í nefið. Brennuvín er drukkið meira en góðu hófi gegnir, einkum í fiskiverunum. Drykkjuskapur er almennur á landinu*), en kaffidrykkjan, sem áður er um getið, hefur þegar gjört mikið að þar í landi eins og annarstaðar, að minnka löngun til áfengra drykkja, og bæta heimilisbrag.

Aðaltilefni sótta þeirra, sem áður eru nefndar, er án efa hin þunga og óholla fæða, ásamt því, hvað bæirnir

*) Árið 1843 stofnuðu nokkrir Íslendingar í Kaupmannahöfn bindindisfjelag, og tóku menn þá að stofna bindindisfjelög víða á Íslandi, og hafa þau komið miklu til leiðar með að snúa huga manna frá ofdrykkju; því áður lá við sjálft, að sá þætti mestur maður, sem mest gat drukkið; og þó að bindindisfjelögin sjálf sjeu nú víðast hvar liðin undir lok, er þó vonandi að afleiðingar þeirra verði langvinnari.

Þýð.

eru vondir, og þar á ofan sóðaskapur, sem enn meir ber á, af því að Íslendingar fara aldrei í bað, og þess vegna kunna líka fáir þeirra að synda.

Konan tekur miklu meiri þátt í örðugleikum lífsins á Íslandi en annarstaðar í norðurálfunni. Hún verður bæði að gegna öllum búverkum og líka verður hún að gjöra skó, sauma föt, raka, þjóna karlmönnunum, og stundum jafnvel smala, róa til fiskjar, og taka fugl, og þess vegna geta íslenzkar konur ekki haft börn sín á brjósti. Bóndinn ræður mestu á heimilinu, og börnin bera mikla lotningu fyrir föðurnum.

Mannfundir voru miklu tíðari í fornöld, en þeir nú eru. Gleðirnar, þar sem vikivakar voru sungnir, voru áður almennar, en eru nú lagðar niður, og er það einkum að kenna of mikilli trúarvandlæting presta á þeim tímum, og fór það illa, þó það reyndar virðist að þær hafi aukið ósiðu, sem ráða má af Jörfagleðinni, sem bönnuð var með dómi í byrjun 18. aldar, sökum þess að 19 konur ógiptar urðu óljettar í seinustu gleðinni. Útlendir dansleikar eru nýlega farnir að komast á á Íslandi. Helzta skemmtun Íslendinga eru glímur, og það er ekki furða, þó að þeir sjeu góðir glímumenn, því að þeir venjast glímum frá barnæsku*). Íslendingar eru vel vaxnir og vel skapaðir, en fáir karlmenn eru fríðir sýnum. Ekki eru

*) Það er íllt að glímur skuli vera að leggjast af í skólanum heima, því áður komu þaðan beztn glímumenuirnir. Glímurnar eru svo falleg íþrótt og svo hentug fyrir skólapilta, til þess að styrkja og efla krapta þeirra og þol, sem margir þeirra þnrfa á að halda við snmarviununa, að það er vonandi, að skólameistarinn, sem hefnr bætt skólann í svo mörgum greinum, láti sjer einnig annt um að halda nppi þessari þjóðlegu mennt.

Þýð.

það nema ungir menn sem glíma. Fullorðnir menn á Íslandi eru optast mjög alvörugefnir, og nærri því raunalegir.

Karlmenn á Íslandi hafa lagt niður þjóðbúning sinn; þeir eru klæddir í buxur, vesti og stutta dökkbláa vaðmálstreyju, eða þeir hafa danskt fatasnið; þeir hafa allflestir danska hatta og derhúfur. Bæði karlar og konur eru að mestu leyti eins klædd sumar og vetur. Konur halda enn hinum gamla, fallega þjóðbúningi sínum. Sparibúningur þeirra er pils, upphlutur með rauðum eða grœnum bryddingum, þröng, dökkblá klæðistreyja silkiklútur um hálsinn og faldur. Ríkiskonur hafa mikið kvennsilfur, hið helzta af því er belti með silfurstokkum. Hversdagsbúningur kvenna er svört prjónapeysa, svart pils og svört húfa lítil með silkiskúf í.

Öllum, sem lýst hafa skaplyndi íslenzku þjóðarinnar, kemur saman um, að Íslendingar sjeu gestrisnir, mjög alvörugefnir, dulir, aðgætnir, ófyrirlátsamir, tortryggir við embættismenn og útlendinga (og það eru allir Danir álitnir), og staklega fastheldnir við allar gamlar venjur, og þess vegna tregir til að gjöra nokkuð annað, en forfeður þeirra hafa áður gjört. Íslendingar aðhyllast jafnrjettisskoðanir lýðstjórnarmanna, og hjú vinna nærri því það eitt, er þeim sjálfum líkar[1]). Á Íslandi heilsast menn, bæði konur og karlar, með kossi og handabandi. Vilji menn sýna sjerstaka virðingu eða góðan þokka, hafa menn kossinn langan og taka fast í hendina.

---

[1]) Eggert Ólafsson kvartar í ferðabók sinni 456. bls. yfir óstýrilæti hjúa, og kennir hann fólksfæðinni um það.

# IX.

## UM ATVINNUVEGINA Á ÍSLANDI.

### 1. Um jarðarrækt.

Ísland er byggt niður við strendurnar, og í hlíðunum niður við fjallarœturnar, en þjettbyggðast er það í dölunum, sem optast liggja 3 eða 4 mílur inn í landið frá ströndunum; alstaðar annarstaðar er miðbik landsins rjett að segja óbyggt.

Þorp eru engin á Íslandi, heldur einungis einstakir bœir[1]), en venjulega heyra mörg hús til hverjum bœ, einkum ef að stórbýli eru. Á stöku stöðum er miklu skemmra á milli bœja, heldur en ætlandi væri, og víða er það á Íslandi, að margir búa á sömu jörðunni. Á hinn bóginn liggja sumir bœir mjög afskekktir, og sumstaðar eru fullorðnar bœndadœtur, sem aldrei hafa farið út úr landareign bœjarins, sem þær eru fæddar á. Í Jarðatali Johnsens[2]) eru byggðar jarðir taldar 5621, það er 1922 í suðurumdœminu, 1414 í vesturumdœminu og 2285 í norður- og austur umdœmunum.

[1]) Í fiskiverum standa þó víða bœiruir hver við auuau.

[2]) Johuseu hefur árið 1847 ritað og látið prenta ágæta bók: „Jarðatal á Íslaudi.“ Þar eru taldar allar jarðir, og hverjir eiga þær (það er að skilja, hvort þær eru einstakra mauua eigu, eða kouungsjarðir, kirkjujarðir o. s. frv.), hvað mörg hundruð þær eru, laudskuld, kúgildi o. s. frv. Í bókiuui eru athugasemdir, er skýra frá ýmsum jörðum, lýsing á brauðum, og ritið er þauuig eius kouar staðalýsing og jarðabók.

Af jörðum á Íslandi eru:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 75 | af hundraði | einstakra manna eign, samtals | 64088 | hundruð. |
| $13^1/_2$ | — | kirkjujarðir ....... | — 11657 | — |
| $10^1/_2$ | — | konungsjarðir ..... | — 8787 | — |
| 1 | — | spítalajarðir og fátækrajarðir ..... | — 910 | — |
| 100 | | | 85442 | hundruð. |

þó að nú $^{75}/_{100}$ af öllum jörðum á landinu sjeu einstakra manna eign, er tala þeirra, sem búa á annara jörðum (þegar með eru talin embættismannasetur) í samanburði við þá, sem búa á jörðum, er þeir sjálfir eiga, eins og 100: 17, það er: 1237 eiga jörðina, sem þeir búa á, og 5957 eru leiguliðar, samtals 7207 bændur[1]). Sumir leiguliðar eru þó líka jarðeigendur, og eru því reyndar miklu fleiri jarðeigendur, en af þessum tölum má ráða.

þess væri því mjög óskandi, að óðul fjölguðu á Íslandi, einkum í vesturumdæminu, því þar eru þau fæst, og mundi það styðja mikið að því, ef Íslendingar hefðu veðsetningar, og ljetu peningana vera meir á gangi[2]). Ef að jarðir eru byggðar um óákveðinn tíma, má byggja leiguliðanum út, ef það er gjört 6 mánuðum fyrir fardaga. Leiguliðarnir gjalda landskuld (venjulega í fríðum peningi eða landaurum) og leigur eptir kúgildin, og stundum hvíla þar að auki á þeim nokkrar kvaðir t. a. m. róður eða heyvinna og hestlán, til að flytja vörur í kaupstaðinn

[1]) Johnsen telur 7204 bændur og 5621 byggðar jarðir. Eptir skýrslum amtmannanna 1849 voru byggðar jarðir ekki nema 4887, það er að skilja, 1393 í suðurumdæminu, 1202 í vesturumdæminu og 2202 í norður- og austur-umdæminu.

[2]) Sbr. ritið eptir Johnsen: „Hugvekja um þinglýsingar" o. s. frv., sem er prentað 1840.

(shr. tilskipun, dags. 13. d. júním. 1787, 3. kap. 1. §), en sjaldan greiða þeir neina festu[1]).

Engir herragarðar eða stórjarðir eru á Íslandi. Meðalstœrð á jörð megandi bónda er hjerumbil 20—30 hundruð, og þegar jarðarhundraðið er talið 30—40 dala virði, kostar jörðin hjerumhil 800 dala[2]).

Það sjest ljóslega af sögunum og mörgum gömlum skjölum, að akuryrkja hefur verið tíðkanleg á Íslandi, frá því er Norðmenn fyrst hyggðu landið, þangað til í lok 14. aldar. Hvergi er að sjá á sögunum eða þessum skjölum, að vinna manna við akuryrkjuna hafi orðið árangurslaus, en þar á móti má sjá það, að akuryrkja hefur ekki verið alllítil, á því, að fornmönnum hefur þótt þess þurfa, að gjöra lagaskipanir um akurrækt[3]), og ef hún hefði verið lítil, mundi hún varla hafa haldizt, svo öldum skipti. Það liggur í augum uppi, að það varð að fara svo, þegar einokunarverzlunin neyddi menn til að hafa meiri viðskipti við betri kornlönd, að menn hefðu hetra úr býtum á því, að verja tíma sínum til fiskiveiða, og að kaupa kornið, sem þeir þurftu; þetta sannast enn fremur á því, að sagan sýnir, að fiskiveiðar fara vaxandi einmitt á sama tímanum og akur-

---

[1]) Sbr. rit eptir B. Thorsteinson, konferentsráð: „Om Kongelige og andre offentlige Afgifter samt Jordebogs-Indtægter i Island“, 139. bls. og þar á eptir; ritið er prentað 1819.

[2]) Það er þó aðgætandi, að verðlagið á hverju jarðarhnndraði er mjög misjafnt.

[3]) Sbr. ritgjörð eptir Halldór Einarsson: „Om Agerdyrkning og Skovdyrkning i Island“; hún er prentuð í „Dansk Ugeskrift“ 7. b. 258. bls. og þar á eptir, og 343. bls. og þar á eptir.

yrkjan hættir. Eptir lok 14. aldar hefur það án efa verið mjög sjaldgæft, að menn legðu nokkra stund á akuryrkju. Rúgur, bygg og hafrar geta enn þróazt og náð fullum vexti á Íslandi, eins og það líka getur vaxið miklu norðar í Noregi og Svíþjóð, og þar sem veðráttufar er miklu harðara; þetta er fullsannað með tilraunum þeim, er Thodal, stiptamtmaður, gjörði á seinni hluta 18. aldar[1]), og voru líkar tilraunir gjörðar á suðurlandi að hans dœmi, en ekki er það líklegt, að mikill hagur geti orðið að því.

Allar ætirœtur og matjurtir þrífast vel í kálgörðum á Íslandi. Garðarœkt byrjaði fyrst seint á 18. öld[2]) (sbr. tilskipun, dags. 13. dag maím. 1776, 18. og 19. §§), og hefur tekið miklum framförum á þessari öld.

Árið 1804 voru ekki nema 293 kálgarðar, en
— 1823 voru þeir..... 2787
— 1833 — — ..... 3326
— 1843 — — ..... 3645 og
— 1849 — — ..... 5042.

það er gleðilegt til þess að vita, hvað miklum framförum garðarœktin hefur tekið, þar eð káltegundir og jarðepli eru góð til manneldis og gripafóðurs. Grasvöxtur er meiri á Íslandi, en við er að búast eptir því hvað norðarlega

[1]) Sbr. „Statistisk Beskrivelse af de fornemste evropæiske Stater", 296. bls., eptir Schlegel; það kom ekki út nema 1 band, sem er prentað 1793. þetta rit skýrir vel frá mörgu um atvinnuvegina á Íslandi undir lok næst liðinnar aldar. Sama er að segja um „Statistik" eptir Thaarup, VI. 432.—535. bls.

[2]) Sbr. „Erindringer fra Island", eptir frú Th(orlacius); bókin er prentuð 1845, og nær yfir árin 1801—1815.

landið liggur[1]), en hafísinn frá Grœnlandi hnekkir honum mjög, því bæði eykur hann vetrarríki, og veldur því, að vetri stundum ekki ljettir af, fyr en komið er fram á hásumar.

Stórir skógar hafa, eins og allir vita, verið á Íslandi í fornöld, einkum birkiskógar, menn hafa höggvið þá ógætilega og of mjög, og eru því gömlu skógarnir öldungis upprœttir. Trjen hafa aldrei verið mjög stór í skógum þessum, og þó eru enn víða stórir skógar í Síberíu og norðurhluta vesturálfu, þar sem veðráttufarið bæði allt árið og um sumartímann er miður hagkvæmt fyrir trjávöxt. Þó að á einstöku stöðum sjeu enn birkiskógar á Íslandi, þar sem trjen eru hjerumbil 20 fet á hæð, má þó ekki heita, að neinir skógar sjeu í landinu; víða eru reyndar smáir birkirunnar, sem ekki geta þrifizt, og getur það ekki heitið skógur. Sökum þessa skógleysis er fjalllendið á Íslandi skuggalegt, og þegar menn þar á ofan sjá stór flæmi af svörtum sandi úr eldfjöllum og fjarska miklar dökkleitar hraunbreiður og jökla og snjóþakta fjallatinda, sem gnæfa upp í loptið á bak við þær,

---

[1]) Þó að Íslaud liggi þrefalt lengra frá Noregi og Svíþjóð en frá Grœulandi, sem að náttúrubragði líkist svo mjög uorðurhluta vesturálfnunar, eru þó dýr og plöutur á Íslaudi öldungis sömu tegundar og í Noregi og Svíaríki, og má því telja, að Grœnlandshaf skilji uorðurálfu og vesturálfu. Það virðist svo, að þessu hafi verið öðruvísi varið, áður en sögur gjörðust, því allur plöntuvöxtur hefur þá verið meiri, og að mikln leyti áþekkur því sem uú er í miðjum norðnrhluta vesturálfu, og frá þeirri tíð er surtarbranduriuu, sem um er getið í athugagreiniuui á 40. bls. Plöntur og dýr, sem til eru á Íslandi, eru nákvæmlega taliu upp í „Geographische Beschreibuug vou Islaud“, 134.—149. bls., eptir dr. Gliemauu; bókiu er prentuð 1824.

verður landslagið enn stórkostlegra og breytilegra. það getur líklega ekki tekizt, að koma upp skógum á Íslandi, þar sem svo er stormasamt og skjólalaust, og allar tilraunir til þess hafa líka mistekizt.

þegar talað er um jarðarrækt á Íslandi, þá eiga menn einungis, eins og sjá má hjer að framan, við túnrækt og engjarækt, sem er svo mjög áríðandi fyrir kvikfjárræktina. Í kring um hvern bœ liggur nokkuð svæði, sem opt er um girt, og borið er á, það heitir tún; áburðurinn er annaðhvort fluttur út á túnið, eða eins og víða er, að fœrikvíar eru hafðar; eru ær mjólkaðar í þeim, og látnar standa inni á nóttunni. Lengra frá bœnum liggja engjarnar; heyið af þeim er miklu ljettara til fóðurs en taðan af túninu. Haglendið í byggðinni er bezt við ár og firði, þó eru líka ágæt beitilönd sumstaðar upp til fjalla, og þar eru selstöður og stórar afrjettir, og er þangað rekið, sauðfje, hestar og naut á sumrin. þúfurnar, sem eru komnar upp af vanrækt, eru sumstaðar svo miklar, að þær standa hver við aðra, og spilla þær stórum grasvexti, og seinka heyvinnunni. Sláttur byrjar á tímabilinu milli 24. dags júním. og miðju júlím., og endar í septemberm. Um sláttartímann fara allir einhleypir menn og margar konur úr fiskiverunum upp í landið til heyvinnu. Karlar slá, en konur raka; en þó að nærri því allir landsbúar starfi að heyvinnunni, gengur hún þó seint, bæði af því, að þúfurnar tefja fyrir, og af því að opt verður að flytja heyið langan veg á hestum. Grasbrestur og ill nýting gjörir sama að verkum á Íslandi, eins og lítill vöxtur gjörir í kornlöndum, og er það einkum slíkt, er veldur hallæri, þó ríður meir á, að heyið sje gott, en að það sje mikið. Varla getur þó

eitt ár valdið miklu hallæri, nema árið á undan hafi verið í harðara lagi. þess væri því óskandi, að Íslendingar reyndu með öllu móti að halda uppi görðum og vatnsveitingum, er forfeður þeirra hafa gjört, og víða hefur verið látið fara að forgörðum, og að sljetta þýfið, þó að það sje örðugt og seinlegt verk, grafa nýja skurði til vatnsveitinga, og vera sjer úti um svo mikinn eldivið, að ekki þurfi, eins og áður er sagt, að brenna áburðinum. (Sbr. tilskipun, dags. 13. d. maím. 1776, sem seinna hefur misst lagagildi, og fylgiskjal við tilskipun, dags. 14. d. juním. 1787.)[1])

## 2. Um kvikfjárrækt.

Kvikfjárrækt er bezti atvinnuvegur Íslendinga, einkum sauðfjárrækt, og lifa menn næstum eingöngu á henni á norðurlandi. Íslenzka fjeð er optast hyrnt, og stundum ferhyrnt; það gengur úti í góðum vetrum allt árið um kring á suðurlandi, og er ekki hýst nema í stórhríðum. Eptir hverja á telja menn 100 potta mjólkur á ári. Ærnar eru hafðar í heimalandi, en allt annað fje er rekið upp á heiðar, og látið eiga sig sjálft, svo snemma á vorin sem hægt er, venjulega seinast í júním. eða fyrst í júlím.,

[1]) það er á ári hverju ekýrt frá því, hvað menu hafa nunið að þessu í uorðnr-, austnr- og vestur-umdæmunnm, en ekki í suðurumdæminu. Árið 1849 voru sljettaðir 3519 □ faðmar í norðnr- og anstur-umdæmnnnm, áður höfðn þar verið sljettaðir 39987 □ faðmar; túngarðar vorn hlaðnir, 3036 faðmar að lengd (áðnr vorn hlaðnir 16220 faðmar), sknrðir til vatnsveitiuga voru grafnir, 7025 faðmar að leugd (áðnr höfðu verið grafnir 74361 faðmar). Sama árið voru sljettaðir í vesturnmdæminu 6599 □ faðmar, túngarðar hlaðuir, 1523 faðmar að leugd, og ekurðir grafnir til vatnsveitinga, 2064 faðmar að leugd.

eptir að búið er að fœra frá. Á haustin ganga menn á fjall, og safna fjenu til rjetta, og er það dregið í sundur eptir mörkum. Konur mjólka fjenaðinn, strokka og hleypa skyr, þær hjálpa til að rýja og þvo ullina, og er ullin víða illa þvegin. Bezta ullin er unnin til fata í sjálfu landinu. Það er vonandi, að íslenzka ullin fari að hækka nokkuð í verði í verzluninni, því Englendingar eru nú komnir upp á það, að ná þelinu úr ullinni, og vinna það sjer; en mest riði á því fyrir landið, að fjárbragðið væri bœtt sem mest. Hin almenna fjársýki, sem á hverjn ári drepur fje niður, stundum meir en stundum minna, gjörir landsbúum mikið tjón. Íslendingar byrgja sig heldur ekki nógu vel að heyjum eptir fjárfjölda, og fellur því fjeð hrönnum í hörðum vetrum. Mestur fjárfellir, sem menn vita af, varð um veturinn 1783—1784; þá fjellu 190488 fjár af 232731. Fjártalan eykst reyndar mikið; hún var[1]):

| | |
|---|---|
| árið 1703 | 278992, |
| — 1770 | 378677, |
| — 1783 | 232731, |
| — 1804 | 218818, |
| — 1823 | 402508, |
| — 1833 | 568607, |
| — 1843 | 606536, |
| — 1849 | 619092. |

Síðan 1804 hefur því fjeð, sem er aðalfjárstofn í landinu, aukizt um 182 fyrir hvert

[1]) Í riti, sem preutað er 1786, og heitir „Philosophische Schilderung der gegenwärtigeu Verfassung von Island“, eru margar töflur um ásigkomulag Íslauds á þeim tímum, sem án efa eru gjörðar eptir skýrslum til stjórnarinnar. Þar er ein tafla, er sýnir fjárfjölda í hverri sýslu árin 1703, 1770, 1783 og 1784.

hundrað, en fólkstalan hefur á sama tímanum einungis aukizt um 24 fyrir hvert hundrað. Meðaltala sauðfjár 6 árin, 1840—1845, hefur verið 577487, það er: 212372 mjólkurær, 68123 sauðir, eldri en veturgamlir, 114033 veturgamalt fje og 182959 lömb. Árið 1849 voru mjólkurær 226836, sauðir, eldri en veturgamlir, 95389, veturgamalt fje 99025 og lömb 197942. Kýrnar eru litlar og fáar hyrndar; úr kúnni fást 1600—2000 potta mjólkur á ári; þær standa inni allan veturinn. Meðaltala á nautgripum 6 árin, 1840—1845, var: 14919 mjólkurkýr, 3199 kvígur, 2038 tarfar og 3047 kálfar, samtals 23203. Tala nautgripa fer heldur minnkandi. Nautgripir voru:

| | | |
|---|---|---|
| árið | 1703 ...... | 38760, |
| — | 1770 ...... | 31179, |
| — | 1804 ...... | 20325, |
| — | 1823 ...... | 25364, |
| — | 1833 ...... | 27862, |
| — | 1843 ...... | 23753, |
| — | 1849 ...... | 25523. |

Íslendingar hafa marga hesta, og eru þeir flestir hafðir til áburðar. Flestallir hestar ganga úti allan veturinn. Þeir eru litlir, en af mjög góðu kyni, staklega þolnir og fótvissir. Meðaltala á hestum 6 árin, 1840—1845, var: 24642 tamin hross, 7331 stóðhross og 1317 folöld. Árið 1849 voru: 25557 tamin hross, 10088 stóðhross og 1912 folöld.

### 3. Fiskiveiðar, fuglaveiðar o. s. frv.

Næst kvikfjárrœktinni eru fiskiveiðar helzti atvinnuvegur á Íslandi. Harður fiskur er, eins og áður er sagt,

almennt hafður til matar, og það er talið, að eytt sje árlega hjerumbil 20000 skippundum af fiski í sjálfu landinu. Ekki eru svo margar fiskategundir á Íslandi, eins og ætla mætti[1]), en þar á móti er mjög mikið til af sumum fiskategundum, einkum þorski, heilagfiski og laxi. Á norðurlandi og austurlandi lifa menn einkum af kvikfjárræktinni, og voru þar því áður varla neinar fiskiveiðar. Á seinni tímum hafa menn farið að stunda fiskiveiðar á norðurlandi, og heppnuðust þær vel veturinn 1850—1851. Á vesturlandi og suðurlandi eru fiskiveiðar mjög miklar, og í mörgum sýslum í þeim hluta lands lifa menn mestmegnis á þeim. Beztu fiskiver eru í Gullbringusýslu og á Vestmannaeyjum. Það eru viss mið á sjónum, sem fiskur einkum leitar að, og þar fyrir ofan á ströndinni liggja hús fiskimanna svo nærri, sem unnt er, og eru nokkur þeirra búðir, sem einungis eru byggðar á vertímanum. Þorskurinn, sem vegur 12—40 pund, kemur í stórflokkum að vesturströnd landsins í febrúarmánuði, en mest kemur af honum í marzmánuði og aprílmánuði, og gengur hann þá næst landinu[2]). Sjálf vertíðin byrjar því á suðurlandi 2. dag febrúarmánaðar, og endar í miðjum maímánuði. Á stöku stöðum á suðurlandi og vesturlandi stunda menn fiskiveiðar nærri því allt árið um kring. Undir vertíðar byrjun kemur

[1]) Á Íslandi eru ekki nema 50 tegundir fiska. Þeim er bezt lýst í „Naturgeschichte der Fische Islands mit einem Anhang von den isländischen Medusen und Stralthieren“, eptir F. R. Faber; bókin er prentuð í Frankfurt am Main 1829. 1.—7. bls. í riti þessu er um aðferðina, sem höfð er við fiskiveiðar á Íslandi.

[2]) Á seinni tímum hefur þorskurinn dregið sig lengra út á sjóardjúpið en áður.

fjöldi karlmanna úr norðurlandi og austurlandi í fiskiverin[1]). Menn hafa þiljulausa báta með 5—10 árum, og eru á þeim 2—20 menn[2]). Net eru ekki víða höfð til fiskiveiða, heldur er mestallur fiskur dreginn á færi. Í hvert skipti, sem bátar koma að landi, er aflanum skipt í hluti á þann hátt, að bátseigandi fær einn hlut eða fleiri, og þar að auki eru jafnmargir hlutir, og menn eru á skipi, þá hluti fá skipverjar. Þegar menn koma að, færa konur þeim venjulega kaffi eða eitthvað annað, sem hitar þeim. Þegar búið er að skipta, er báturinn settur, og verða þá skipverjar lengur eða skemur að standa niðri í sjónum upp að mitti, og geta skinnklæðin, sem eru brók úr illa verkuðu kálfskinni og sauðskinni og sokkar áfastir brókinni úr sama skinni, sjaldan haldið þeim þurrum. Konur og karlar hjálpast að, að gjöra að fiskinum, svo að hann verði undir eins þurrkaður eða saltaður, eða seldur kaupmanninum. Þessi starfi eykur mjög óþverraskap í bæjunum, því slorinu er kastað út fyrir bæjardyrnar og í

---

[1]) Í skýrslu frá Stephensen, amtmanni, sem er dags. 20. dag maím. 1771, ern fiskimenn taldir 9626. Flestir menn telja ekki fiskiveiðar aðalatvinnnveg sinn, og næstum því allir menn á Íslandi segjast því lifa á jarðyrkju, þegar þeir ern settir á manntalsskrárnar. Þegar fólk var talið 1845, vorn taldir á manntalsskránnm 7223 húsráðendur (með heimilisfólki sínn að töln 47830), er lifðn á jarðyrkju, og einnngis 853 húsráðendnr, með heimilisfólki sínn 3667 að töln, sem lifðn á fiskiveiðnm.

[2]) Tala báta á Íslandi var:

árið 1804 ....... 2163,
— 1823 . ..... 2175,
— 1833 ....... 2457,
— 1849 ....... 3801.

Af þeim vorn 236 tíæringar og áttæringar, 1156 sexæringar og fjögramannaför og 1709 minni bátar.

kring um bœinn, og þar er það látið liggja og úldna, og fátœkir menn, sem ekki hafa nóg rúm í hjöllunum, þar sem fiskurinn er þurrkaður, hengja skinnklæðin til þerris inni í bœjarhúsunum.

Kaupmanninum er undir eins selt mikið af fiskinum, og er búinn til saltfiskur úr honum; saltfiskur er nærri því allur fluttur til annara landa, því Íslendingar hafa sjálfir til matar ósaltaðan harðan fisk. Allur annar fiskur er hertur, hann er annaðhvort kviðflattur eða hnakkflattur, og hertur á rám, eða breiddur út til þerris[1]). Nærri því allt úr fiskinum er haft til matar; hrognunum, sundmaganum, kútmaganum og lifrinni er safnað hverju út af fyrir sig; lifrin er látin í ílát, og sumstaðar í gryfjur, og er hún látin vera þar, þangað til hún úldnar, og verður að lýsi. Íllt veður má vera, ef Íslendingar róa ekki til fiskjar, og venjulega keppast íslenzkir formenn á um það, að fá sem hæstan hlut, og má nærri geta, að eigendur skipanna, sem optast eru embættismenn eða efnaðir bœndur, muni ekki letja þá. Formenn, sem eru vanir að vera heppnir, eru í miklum metum, og sœkjast skipeigendur mjög eptir þeim, og beztu og ötulustu hásetar reyna til að komast í skip með þeim. Hæstur hlutur um allan fiskitímann er, eptir því hvað gott fiskiár er[2]), 1000—1200 fiska á mann, og má það heita mjög mikið, einkum þegar gætt er að, hvað tíminn er stuttur. Það má gjöra

---

[1]) Nákvæm lýsing á fiskverkun á Íslandi er í „Samlinger til et Handelsmagazin for Island eptir C. Pontoppidan; bókin er prentuð 1787 og 1788.

[2]) Eptir rannsóknum þeim, er Ólafur Stephensen, stiptamtmaður, gjörði á tímabilinu 1605—1785, í 180 ár, telur hann 35 fiskileysisár, en hin öll meðalár og góð ár til fiskiveiða.

sjer hugmynd um, hvílík ógrynni fiskjar er í sjónum í kring um Ísland, þegar t. a. m. 18 bátar á Vestmannaeyjum fengu á einum degi, sem þó ekki var hezti dagur á vertíðinni, 25000 fiska, og var allur þessi fiskur dreginn á fœri á 20 faðma djúpi. Í Faxaflóa er fiskur veiddur í netum, og á lóð. Lóðin er strengur settur með önglum með heitu á, og lögð út í sjó, með stjóra og dufli við báða enda.

það er þó minnsti hlutinn af fiskinum, sem á ári hverju er veiddur við Íslands strendur, sem landsmenn sjálfir veiða; því þeir hafa mátt horfa á nú á seinni öldum, að hjerumbil 150 þiljuskip frá Frakklandi, Belgíu, Hollandi og Danmörku hafa á hverju ári frá miðju maímánaðar þangað til í miðjum ágústmánuði, það er að skilja, eptir vertíðarlok á Íslandi, legið á fiskiveiðum á ytri miðunum, sem eru 4—12 mílur undan landi, en hafa sjálfir ekki getað tekið nema lítinn þátt í þessum fiskiveiðum. Stjórnin hefur á seinni tímum leitazt við að efla fiskiveiðar á Íslandi, með því að koma á þiljuskipum, og hefur það tekizt allvel, og veldur því án efa fremur atorkusemi einstakra manna en verðlaunin, sem tekin voru af 1837[1]). Mannfæðin og skortur á þeim höfnum, sem þiljuskipin geti legið óhult í, hamla því reyndar mjög, að fiskiveiðar á þess konar skipum geti komizt á. það er einkum við fiskiveiðarnar, að ber á mannfæðinni, og kveður svo rammt að henni, að víða verða margir bátar að standa uppi sökum mannaleysis[2]). það er líka mannfæðinni að

---

[1]) Árið 1849 voru 23 þiljuskip í vestnrumdœminn, 3 í norðnr- og anstnr-nmdœmnnnm, og hjerumbil 15 í suðurumdœminu.

[2]) Á seinnstu manntalstöflunum eru ekki taldir nema 289 dag-

kenna, að hákarlaveiðarnar, sem eru svo arðsamar, eru svo lítt stundaðar. Hákarlar eru veiddir á þiljuskipum langt undan landi, og eru það, þegar frá eru skildir Vestfirðir, nærri því kaupmenn einir, sem hafa þenna veiðiskap.

Dýraveiðar eru ekki miklar á Íslandi. Villidýr eru þar engin, og það hefur orðið árangurslaust, að menn hafa reynt að flytja þangað hjera, til þess að þeir skyldu fjölga þar, og kemur það líklega til af því, að tóurnar hafa drepið þá, þær eru hið eina hrædýri, sem til er í landinu. Tóuskinnin íslenzku, einkum hin ljósgráu, eru einhver hin beztu í norðurálfunni. Hafísinn frá Grænlandi flytur stundum hvítabirni til landsins, en þeir fara optast aptur burt með honum. Líka kemur með hafísnum fjöldi sela, og er því æði mikið af þeim í hafinu kringum Ísland, og selveiðar eru þar ekki alllitlar, einkum á norðurlandi og vesturlandi[1]. Margs konar hvalfiska tegundir eru í hafinu í kring um landið, en óvíða reyna menn að færa sjer það í nyt. Stundum rekur hval upp á ströndina, og er það mikil heppni fyrir þann, sem á rekann. Árið 1770 voru hreindýr flutt til landsins, þau hafa seinna fjölgað þar, en dregið sig upp á heiðar, og eru þau þar í stórum flokkum, einkum á heiðunum milli Þingvallavatns og Reykjaness, og á heiðunum í landnorðurhluta landsins,

---

launamenn, og er helmingur þeirra í vesturumdæminu, en þar á móti eru taldir 1693 sveitlægir menn, bæði konur og karlar.

[1]) Sbr. 531. bls. í ferðabók Eggerts Ólafssonar og Bjarna Pálssonar um ferð þeirra á Íslandi 1752—1757; ferð þessi var gjörð að tilhlutun vísindafjelagsins í Kaupmannahöfn; bókin er prentuð í Sórey 1772, hún er 2 bönd í fjögra blaða broti, með 51 prentuðum eirspjaldamyndum. Í þessari bók er að öllu samtöldu greinilegasta lýsing, sem til er, um Ísland.

ekki eru þau þó landsbúum til mikilla nota. Hver jarðeigandi á Íslandi á rjett á að veiða, því landið hefur fengið ný veiðilög, og eru þau dagsett 20. dag júnímánaðar 1849. Fuglaveiðar eru einkum á eyjum, Vestmannaeyjum, Papey, Grímsey og mörgum smáeyjum á Breiðafirði, og víða á útnesjum eru fuglabjörg. Mest er af æðarfugli (anas mollissima), lunda og fýlunga. Æðarfuglinn er nú vel friðaður, og er hann því mjög gæfur; undan honum fá menn mörg egg auk dúnsins, sem er ágæt vara. Næst æðarfuglinum er mestur arður að lundanum. Auk þess að mikið fiður er af honum, er hann hafður til matar, annaðhvort nýr eða saltaður. Á Vestmannaeyjum er ógrynni af fugli þessum, og þar eru árlega drepnir hjerumbil 200000 lundar; lundarnir eru drepnir á þann hátt, að menn hafa prik með krók á endanum, og krækja fuglinn út úr holunum, sem hann grefur í jörðina, og snúa hann úr hálsliðnum. Ötull maður getur á þenna hátt drepið 400—600 fugla á dag. Fýlungaungarnir eru mjög góðir átu, en til að ná þeim, verða menn að láta sígast fyrir bjarg í sterku ólarreipi, þannig verður maður að hanga, og stýra sjer með fótunum og bjargstönginni á milli hreiðranna, og er það bæði hættulegt og líka óþægilegt sökum þess, að fuglinn ver sig með því að æla upp úr sjer lýsiskenndri spýju, sem mesti óþefur er af, ofan yfir þann, sem fer í bjargið[1]). Íslenzkir fálkar eru nafntogaðir, og meðan að fálkaveiðar tíðkuðust, keyptu konungarnir alla fálka, sem veiddust á Íslandi, til að gefa þá öðrum konungum[2]).

---

[1]) Sbr. rit Schleisners, sem áður er nefnt, 149. og 150. bls.

[2]) Sbr. langa og lærdómsríka ritgjörð: „Om Falkejagten især

Fáir menn á Íslandi lifa af því að vinna það, sem landið gefur af sjer. Menn búa þó til hitt og þetta úr ull í heimahúsum, einkum peysur, sokka og vetlinga, en mest eru það stórgerðar vörur, og ekki ætið vandaðar; bezt eru slíkir hlutir unnir á norðurlandi. Af því, sem að áður er sagt um háttsemi Íslendinga, má ráða, að ekki sje mikill iðnaður þar í landi. Þegar manntal var haldið 1845, voru skóarar einir fjórir, og 8 skraddarar, járnsmiðir voru þar á móti 21 og skrínsmiðir (snikkarar) 34, og eru jafnmargir, er leggja stund á þessar tvær iðnir eins og allir aðrir iðnaðarmenn á landinu[1]. Stjórnin gjörði að sönnu ýmsar tilraunir á 18. öld, til að koma á verkstöðum, og Friðrik 5. og Kristján 7. vörðu til þess miklu fje, en þó tókst það ekki. Einkum bjuggust menn við, að ábati mundi verða að málma- og steinategundum á Íslandi (sbr. einkum tilskipun, dags. 13. dag júnímán. 1787, 3 kap. 9. §), og er það að sjá, að menn hafi haldið, að miklu meira væri til af þeim en er[2]. Ekkert er eptir af þessum iðnaðarstofnunum nema brennu-

i Danmark", eptir Jacobsen, etatsráð; hún er prentuð í „Nyt historisk Tidsskrift", 2. b. 307.—414. bls.

[1]) Þess ber þó að gæta, að enginn er á Íslandi talinn iðnaðarmaður, sem ekki er fullnumi, því að öðrum kosti yrðu þeir miklu fleiri.

[2]) Engar steina-eða málmategundir eru á Íslandi, er til muna efli velmegun þjóðarinnar; þeim er lýst í riti eptir Varga greifa Bedemar, sem er prentað í Kaupmannahöfn 1817, og heitir „Om vulkanske Produkter fra Island", og í „Geographische Beschreibung von Island", eptir dr. Gliemann, á 72.—89. bls.

steinshreinsunin í Húsavík*), sem stofnuð er árið 1761; hún er konungseign, og er leigð fyrir 100 dala eptirgjald á ári[1]).

---

# X.

## UM VERZLUNINA.

Á ýmsum tímum árs er fjöldi manna á Íslandi á ferðum. Í janúarmánuði fara margir af sveitabúum til sjóar til að stunda fiskiveiðar, og fara aptur heimleiðis í maímán-

---

[1]) Eldri skýrslur um brennusteinshreinsunina á Íslandi eru í Lærdóms lista fjelags ritunum, IV. 1.—48. bls. og á 126.—132. bls. í hinu lærdómsríka riti eptir M. Stephensen, konferentsráð: „Island i det 18. Aarhundrede", sem er prentað árið 1808. Þegar mestur brennusteinn fjekkst í Húsavík, voru þar árlega hreinsuð hjernmbil 60000 punda af brennusteini.

*) Námurnar voru leigðar kaupmönnunum Örum og Wulff þangað til 16. dag júlímánaðar 1851. Dr. Jón Hjaltalín minnti því stjórnina á, að þörf væri á að rannsaka námurnar vandlega, til þess að stjórnin gæti fengið að vita, hvað gjöra skyldi við þær framvegis, og bauðst hann sjálfur til þeirrar ferðar. Í úrskurði dags. 19. dag maímánaðar 1851 leyfði konungur, að dr. Hjaltalín færi til Krýsuvíkur, og þaðan til Húsavíkur, til að rannsaka brennusteinsnámurnar og stinga upp á, hvernig fara skyldi með þær framvegis.

Dr. Hjaltalín fór þessa ferð um sumarið 1851; honum leizt ekki á námurnar fyrir norðan, eins og sjá má í brjefum hans frá Íslandi, sem eru prentuð í 12. ári Nýrra Fjelagsrita, og rjeði hann því stjórninni til að hætta fyrst um sinn við námurnar. Stjórnin fjellst á þetta, og skrifaði því ráðgjafi innanríkismálefnanna amtmanninum í norður- og austur-umdæminu til, 15. dag maímánaðar 1852, að selja hús þau í Húsavík, er konungur átti, og öll áhöld við brennusteinshreinsunina.

Þýð.

aðarlok; og undir sláttinn fara margir, sem búa við sjó, einkum úr Gullbringusýslu og Snæfellsnessýslu upp til sveita í kaupavinnu, og fara aptur heimleiðis í sláttarlok, og enn fremur fer mestur þorri manna kaupstaðarferðir á sumrin, til að selja vörur sínar, og kaupa það, sem þeir þarfnast. þessi tækifæri nota landsbúar til að skiptast á vörum sínum, en að öðru leyti má nærri geta, að verzlun ekki getur verið mikil innanlands, þar sem að samgöngur eru svo torveldar, að þegar að maður ætlar að flytja búferlum frá norðurlandi til suðurlands, eða frá Austfjörðum til Vestfjarða[1]), getur verið efi á, hvort ekki sje hægast og kostnaðarminnst, ef menn þurfa að flytja með sjer búslóð sína, að senda hana með skipi til Kaupmannahafnar, og þaðan til Íslands, þangað sem maður ætlar að flytja, sökum þess að sjóferðir í kring um Ísland eru svo sjaldgæfar, og allt sem flutt er landveg, verður að bera á hestum, því engir vagnar verða hafðir[2]). Eptir til-

---

[1]) Á milli uorðurlauds og suðurlauds eru 3 alþekktir, allgóðir fjallvegir, Skagfirðiugavegur, Eyfirðiugavegur og Sprengisandur, eu engiuu fjallvegur liggur á milli Austfjarða og útsuðurhluta landsius, þó það hafi áður verið*), og ferðameun, sem að ferðast á milli suðurlauds og austurlauds, verða því að fara langau, seinfariuu og torveldau veg eptir sjóarströudinui.

Schytte, caud. polyt., ferðaðist sumarið 1840 frá útsuðurhluta laudsius til Austfjarða yfir miðbik landsius; þá kom á hauu stórviðri og kafald, og var hanu nærri dauður; hefur haun lýst þessari ferð siuui í „Naturhistorisk Tidsskrift", sem Kröyer hefur látið prenta, III. 331.—390. bls.

[2]) það, sem einkum gjörir ferðir á Íslaudi hættulegar og torveldar eru jökuláruar, sem opt bylta áfram stórum jökum og

*) Herra Björn Guuulaugssou yfirkeunari við lærða skólauu í Reykjavík faun aptnr Vatuajökulsveg, og er honum stuttlega lýst í 14. ári Skíruis, í ræðu eptir forseta, sem þar er preutuð.

þýð.

skipun, dagsettri 18. dag júnímánaðar 1784, er dönskum mælingum, vogum og peningum komið á á Íslandi (sbr. tilskipun, dags. 20. dag marzmán. 1815, og opið brjef, dags. 11. dag maím. 1819), en sjaldan hafa landsbúar það í viðskiptum sín á milli. Það hefur æfalengi verið siður, að selja ýmislegt, bæði fríðan pening og lausa aura, og þar á meðal algengustu verzlunarvörur, eptir hundruðum. Hundrað er, í fríðum peningi 1 kýr, 6 ær loðnar og lembdar í fardögum, 6 sauðir 3 vetra og eldri, 8 sauðir 2 vetra og 12 veturgamlir, 8 ær geldar á hausti, áburðarhestur 5—12 vetra í fardögum. Þegar vörur eru metnar til hundraðs eru í hundraði 12 fjórðungar ullar, tólgar eða smjörs, 6 vættir fiska, tunna eða 120 pottar lýsis, 120 álnir gjaldvoðarvaðmáls álnarbreiðs, 6 pund af æðardúni vel hreinsuðum o. s. frv.[1]).

grjóti. Á sumrin, þegar sólarhitinn þíðir jökulinn, kemur slíkt jökulhlaup í þessar ár, að menn verða stundum að bíða marga daga, áður en menn geta komizt yfir þær, því ekki eru ferjur nema á sumum þeirra. Þó að þær sjeu ekki dýpri en á miðja síðu, er þó opt hættulegt að fara yfir þær, sökum þess að þær eru svo straumharðar. Ekki eru það þó margir, sem drukkna í jökulám. Venjuleg dagferð á Íslandi, þegar menn eru með lest, er hjerumbil 5 mílur, og fara menn áfangann á 10—12 stundum, eptir því hvernig vegur er. Íslenzkir ferðamenn hafa með sjer tjald úr ullardúki, og liggja í því á næturnar, þar sem þeir finna góða haga fyrir hestana. Útlendir ferðamenn liggja opt í kirkjum, þegar þeir geta náð kirkjustöðunum. Lagðir vegir eru ekki á Íslandi, þar á móti eru götur og vörður, er vísa vegfaranda leið. Þokur koma sjer opt illa fyrir ferðamenn, þær koma stundum á allt í einn, og geta haldizt hjerumbil í viku.

[1]) Sbr. bækur þær, sem taldar eru í athugagreininni á 14. bls. í riti eptir B. Thorsteinson, sem er prentað 1819, og heitir „Om Kongelige og andre offentlige Afgifter samt Jordebogs-Indtægter i Island“ (sbr „Lit. Tid.“ 1820,

Meðan Ísland var þjóðveldi, var allur kaupskapur, bæði til landsins og frá landinu, rekinn annaðhvort með norskum skipum, ellegar að landsmenn áttu þau sjálfir, en frá lokum 14. aldar náðu Englendingar[1]) og Hansasambandið mestallri verzlun þar. Til þess að ná henni úr höndum þeirra, veitti Kristján konungur 4. árið 1602 dönsku verzlunarfjelagi einkaleyfi til hennar, og síðan var hún jafnan einbundin. Á tímabilinu 1602—1683 var hún þannig seld á leigu þremur dönskum verzlunarfjelögum, og frá 1684 til 1732 einstökum kaupmönnum í Kaupmannahöfn fyrir hjerumbil 20000 dala á ári. Árin 1733—1741 hafði eitt fjelag verzlun þessa fyrir 8000 dala afgjald, en árið 1742 var hún seld hörmangarafjelagi í Kaupmannahöfn á leigu fyrir 16000 dala á ári, og þetta fjelag fór verst með Íslendinga. þegar það fyrirgjörði einkaleyfi sínu árið 1759, hafði stjórnin sjálf verzlunina á Íslandi í 5 ár, en eptir árið 1764 var hún seld á leigu verzlunarfjelagi einu fyrir 7000 dala á ári, og þegar það hætti 1774, hafði stjórnin hana aptur þangað til 1787, þá var einokunarverzlunin, er mest af öllu hefur drepið niður allri velgengni á Íslandi, tekin af með opnu brjefi, dagsettu 18. dag ágústmán. 1786, og tilskipun, dags. 13. dag júnímán. 1787[2]), er gjörði öllum þegnum Danakonungs

---

32. og 33.), og á 1. bls. og þar á eptir í riti Halldórs Einarssonar, sem prentað er 1833, og heitir „Om Værdi-Beregning paa landsviis og Tiende-Ydelse i Island".

[1]) Sbr. ritgjörð eptir Finn Magnússon: „Om de Engelskes Handel og Færd paa Island i det 15. Aarhundrede" i „Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed", II. 112.-169. bls.

[2]) Um eldri verzlunarsögu Íslands er talað í riti eptir A. F. Bergsöe: „Geheimestatsminister Grev Reventlovs Embedsvirksomhed", 2. b. 193.—223. bls.

í norðurálfu heimilt, að verzla á Íslandi, en bannaði þó utanríkismönnum að fara þangað kaupferðir. Sú breyting hefur verið gjörð á þessu með tilskipun, dags. 11. dag septembermán. 1816, að aðrar þjóðir mega, ef þær beiðast þess, verzla á Íslandi, án þess að gjalda neinn toll af innfluttum eða útfluttum vörum, ef þær gjalda 50 ríkisdali fyrir hvert lestarrúm, þegar þeir fá vegabrjefið, en ekki nema 20 ríkisdali fyrir hvert lestarrúm, þegar fluttur er húsaviður. En sökum þess að afgjald þetta var svo mikið, hefur enginn beiðzt slíkra vegabrjefa, og utanríkismenn hafa því enn enga verzlun á Íslandi, þó að hjerumbil 150 skip frá öðrum löndum en Danmörku komi á ári hverju undir Ísland til fiskiveiða. Eptir opnum brjefum, dags. 1. dag júnímán. 1821 og 22. dag marzmán. 1839, hafa þó nokkur utanríkisskip, flestöll úr Noregi, eptir beiðni fengið leyfisbrjef, til að fara kaupferð til Íslands með húsavið og trjesmíði, ef goldið er fyrir þau 36 skildingar fyrir hvert lestarrúm í skipinu. Þó er sá skilmáli settur, að, ef vörur eru fluttar með þessum skipum frá Íslandi beinlínis til annara landa en Danmerkur, og þær eru meiri en í hálft skipið, þá skuli þau greiða sama afgjald og vant er, þegar vörur eru fluttar beinlínis frá Íslandi til annara landa en Danmerkur, það er 14 mörk fyrir hvert lestarrúm í skipinu[1]. Helztu kauptún á landinu eru Reykjavík og Akureyri.

---

[1]) Árið 1845 sendi alþingið bænarskrá, og beiddist þess, að rýmkað væri um verzlun á Íslandi, og einkum að verzlunarmenn frá öðrum löndum en Danmörku fengju leyfi til að verzla á Íslandi, án þess að gjalda neitt eptir farminn, þegar það væri viðarfarmur, og 2 ríkisdali fyrir hvert lestarrúm, þegar flutt væri korn, salt eða steinkol, og endrar nær 5 ríkis-

Á seinni tímum hafa Íslandsför gengið opt beinlínis frá Íslandi til miðjarðarhafsins, Englands eða annara staða með íslenzkar vörur. Af íslenzkum vörum, sem fluttar eru úr Danmörku til annara landa er goldinn 1 af hverju hundraði í þóknun fyrir að mega flytja þær út, en af förmum, sem, eins og áður er sagt, eru fluttir beinlínis frá Íslandi til annara landa en Danmerkur, eru goldin 14 mörk fyrir hvert lestarrúm, eptir opnu brjefi, dags. 28. dag desembermán. 1836, 13. §. þetta gjald er hjerumbil 2000 ríkisdala á ári, og ef það væri 1 af hundraði af verði allrar vöru, sem flutt er beinlínis frá Íslandi til útlanda (mest af þessum vörum er saltfiskur, sem fluttur er til miðjarðarhafsins)[1]), þá væru þær hjerumbil 200000 ríkisdala virði.

---

dali fyrir hvert lestarrúm, en stjórnin hefur enn ekki orðið við bœn þessari. þeir, sem ekki vilja leyfa ntanríkismönnnm að verzla á Íslandi, fœra það einknm til síns máls, að vegalengdin, hafísinn, það, að landið gefur svo misjafnt af sjer, eptir því hvernig árar, að það er svo örðugt að fara á milli hafnanna með vörur sínar og annað því nm líkt gjörir markaðinn mjög stopulan, og að margir muni því hika við að leita þangað, þegar þeir ekki vita, við hverja þeir eiga að keppast á, og að auðveldlega gæti farið svo, þegar sumir kaupmenn geta ekki selt vörur sínar sjer að skaðlausn, að einstakir ríkir kanpmenn utanríkis nái allri verzlnninni, og muni þeim þá veita það hœgt að halda landinu í nokkurs konar verzlunaránauð. Líka halda þeir, að verzlunarmenn frá öðrnm löndnm en Danmörku, og einkum Englendingar, mnni að öllnm líkindum fylla landið með óþarfavörur, og sje ekki hœgt að sporna við því með því að leggja toll á þær, því tolli verði ekki komið við á Íslandi. Ekki virðist þó, að það ætti að taka ástœðnr þessar neitt til greina, þegar að Íslendingar ern sannfœrðir nm, að verzlunarfrelsið sje landi sínu hagkvæmast.

1) Í „Centralblatt für Haudel“ o. s. frv., eptir Boolsen, kammerráð, er á 249. bls. í 1. ári talið, að flutt hafi verið frá Íslaudi til miðjarðarhafsins árið 1845 2567312 pnnd af saltfiski.

Allar vörur, sem fluttar eru frá Íslandi væru þá rúmlega 1000000 ríkisdala virði, því verðið á öllum vörum, sem fluttar hafa verið frá Íslandi til Danmerkur árin 1847, 1848 og 1849, hefur að meðaltölu verið hjerumbil 850000 ríkisdala á ári, og mjög lítið er flutt af vörum frá Íslandi til Slesvíkur og Holsetalands. Árin 1844, 1845 og 1846 voru t. a. m. einungis fluttar þangað vörur fyrir hjerumbil 5000 ríkisdala á ári, en hjerumbil 20 sinnum meiri vörur voru fluttar þaðan til Íslands. Nærri því allar vörur, sem fluttar eru frá Íslandi til Danmerkur, eru fluttar til Kaupmannahafnar, og þaðan er mikið af þeim selt til annara landa; næstum því ekkert er flutt frá Íslandi til danskra kaupstaða[1]),

---

[1]) Þegar gætt er að, hvert í Danmörku helztu verzlunarvörur frá Íslandi hafa verið fluttar árið 1849, þá fluttust af fiski 99½ af hundraði til Kaupmannahafnar, en ekki nema ½ af hundraði til annara staða í konungsríkinu, af ull fluttust 99 af hundraði til Kaupmannahafnar, af tólg 98¼ af hundraði, af lýsi 96 af hundraði, og öll skinn og duggarabandsvara var flutt þangað.

Á árunum 1847-1849 er flutt frá Íslandi til Danmerkur:

| | 1847 | 1848 | 1849 |
|---|---|---|---|
| fisknr, saltaðnr: | | | |
| lax ........ .... | 10072 pund | 13776 pund | 8032 pd. |
| síld ........... | 8 tnr. | 18 tnr. | 10 tnr. |
| annar fiskur .. . | 48 - | 37 - | „ |
| — saltaður og hertnr | 2504064 pund | 3891337 pund | 2755504 pd. |
| spik, lifur o. s. frv. ... | 1841 tnr. | 1335 tnr. | 32 tnr. |
| lýsi.................. | 5043 - | 4392 - | 3208 - |
| ull ................... | 1002704 pund | 1246296 pund | 906392 pd. |
| ullarvörur ............ | 28463 - | 100399 - | 65808 - |
| tólg ................. | 821436 - | 752026 - | 643944 - |
| kerti ................ | 128 - | 5536 - | „ |
| saltkjöt .............. | 387138 - | 792192 - | 300988 - |
| hangikjöt............. | 592 - | „ | „ |
| rjúpur ............... | „ | 2728 - | 951 - |
| sanðskinn ............ | 18760 - | 129309 - | 40223 - |
| skinn, sem tollheimtumennirnir hafa ekki lýst, líklega sanðskinn | 66171 - | „ | „ |
| selskinn ............. | 1048 - | 2094 - | 1642 - |
| loðin skinn........... | 508 - | 1065 - | 657 - |
| æðardún ........ .... | 2195 - | 2891 - | 3588 - |
| fiður........... ..... | 14098 - | 20350 - | 20880 - |
| brennusteinn.......... | 8600 - | „ | „ |
| hvalskíði ............. | 701 - | „ | „ |

Vörur, sem fluttar eru frá Íslandi, hafa mikið aukizt á þessari öld, og flestar þeirra eru nú helmingi meiri en við lok 18. aldar, og enn meiri munur er á því, hvað mikils virði þær eru í peningum[1]).

[1]) Í „Philosophische Schilderung der gegenwärtigen Verfassung von Island" (sbr. athugagr. á 54. bls.), 7 töflu,

Hjerumbil helmingur verðs á öllum vörunum er fyrir sjóarafla, þegar með er talið lýsi og spik[1]).

Fiskur er fluttur frá Íslandi bæði til útlanda og Danmerkur fyrir 400000 ríkisdala á ári að meðaltölu. Næst fiski eru helztu vörur, sem fluttar eru út úr landinu á ári hverju:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| ull...... | fyrir | hjerumbil | 230000 | rd. | að meðaltölu, |
| ullarvara.. | — | — | 70000 | - - | — |
| tólg...... | — | — | 130000 | - - | — |
| lýsi og spik | — | — | 100000 | - - | — |
| saltkjöt... | — | — | 50000 | - - | — |
| skinn..... | — | — | 30000 | - - | — |

Tölur þessar eru teknar nærri sanni, til að skýra fyrir lesandanum verðhæð á hinum einstöku vörutegundum, því bæði er allur vöruafli svo misjafn á Íslandi, eptir því hvernig árar, og af því, að vörurnar ganga misjafnt í verzluninni, að það verður mikill munur bæði á því, hvað mikið er flutt út úr landinu, eins og sjá má af töflunni á 70. bls., og á því, hvað mikið fæst fyrir þær.

Meiri vörur hafa líka flutzt inn í landið[2]), en þó

og töflunum við 498. bls. í 6. bandi af „Statistik“, eptir Thaarup, og í „Island i det 18. Aarhundrede“, eptir M. Stephensen, er skýrt frá, hvað miklar vörur hafi verið fluttar frá Íslandi á eldri tímum.

[1]) Af því að kvikfjenaður hefur ankizt svo mikið á þessari öld, eins og áður er um getið, er ekki eins mikill hluti af allri verðhæð á útfluttum vörum fyrir sjóarafla eins og við lok 18. aldar. Í 21 ár, frá 1764 til 1784, voru fluttar vörur frá Íslandi samtals fyrir 4700000 rd. kúr., og af þessu voru 3000000 fyrir sjóarafla, 1300000 fyrir landvörur og 400000 fyrir ullarvörur.

[2]) Á 8. töflu í „Philosophische Schilderung“ o. s. frv. er því lýst, hvað miklar vörur hafi verið fluttar til Íslands á eldri tímum.

voru ekki fluttar vörur frá Danmörku fyrir meira en hjerumbil 437000 rd. árið 1849, og það er án efa lítið, sem flutt er til landsins beinlínis frá öðrum löndum, því þó að ekki svo fá dönsk skip, er hafa flutt farma til landsins, fara þaðan beinlínis til annara landa en Danmerkur, einkum til landanna við miðjarðarhafið, koma þó fá skip til Íslands með farma frá stöðum utanríkis. Áður en stríðið við hertogadœmin byrjaði, voru fluttar þaðan árlega vörur fyrir hjerumbil 100000 rd. að meðaltölu; og voru þær mestallar frá Flensborg. Helztu vörutegundir, sem hafa verið fluttar frá Danmörkn til Íslands á árunum 1847, 1848 og 1849 eru árlega að meðaltölu:

| | | |
|---|---|---|
| kornvörur og brauð hjerumbil (12600 tunnur af rúgi, 5700 tunnur af grjónum, 4900 af öðrum möluðum og ómöluðum korntegundum og 144000 pund af brauði) fyrir hjerumbil ............... | | 160000 rd. |
| brennivín (hjerumbil 220000 pottar), hjerumb. | | 41000 - |
| kaffi (hjerumbil 240000 pund), ... | — | 36000 - |
| sykur og síróp (hjerumb. 220000 pd.), | — | 30000 - |
| tóbak (hjerumbil 78000 pund), ... | — | 17000 - |
| timbur (hjerumb. 69000 teningsfet), | — | 17000 - |
| járn og járnsmíði (hjerumb. 150000 pund), .................... | — | 12000 - |

Ekki er hœgt að sjá, hvað mikið gengur upp, af því, hvað mikið er flutt til landsins eitt og eitt ár, því það fer eptir því, hvað miklar vöruleifar eru fyrir, en það væri mjög torvelt að fá skýrslu um vöruflutning til landsins í mörg ár í samfellu; en nú eru lögð drög fyrir, að samdar verði skýrslur um vörur, sem árlega eru fluttar til Íslands og frá Íslandi.

Á fimmárabilinu 1845—1849 hafa að meðaltölu á ári hverju verið tekin vegabrjef til Íslands.

| | meðaltala á ári | | stærð á hverju skipi að meðaltölu |
|---|---|---|---|
| | skipatala | stærð | |
| fyrir skip frá Danmörku | 88 | 3312 lestarrúm | 38 lestarrúm |
| — — — hertogadœmuum | 9[1]) | 287 — | 32 — |
| — — — Noregi | 5 | 133 — | 26 — |
| | 102 | 3732 lestarrúm | 37 lestarrúm |

og tala skipa þeirra, sem fara árlega frá Danmörku til Íslands fer optast nærri þessari meðaltölu.

---

# XI.

## UM STJÓRNARTILHÖGUN Á ÍSLANDI.

Þangað til á miðri 13. öld var Ísland þjóðríki með höfðingjastjórn. Auk fjórðungsdómanna á alþingi var lögrjettan, sem var fyrir allt land; hún gaf lög, og ákvað, hvað hver skyldi gjalda í almennings þarfir. Í lögrjettunni voru: lögsögumaðurinn, sem valinn var til þriggja ára, og 48 lögrjettumenn, 12 úr hverjum fjórðungi, og skyldi hver þeirra velja 2 til ráðaneytis sjer. Lögrjettan

[1]) Árin 1845, 1846 og 1847, áður en stríðið við hertogadœmiu byrjaði, fóru hvert árið 12 skip þaðau til Íslands, og var stærð þeirra samtals 400 lestarrúm. Árið 1848 fóru þaðan eiuungis 6 skip og 1849 ekki nema 2.

var haldin á alþingi í heyranda hljóði. Allir stórbændur á landi sóttu þing, og mál lukust eptir atkvæðafjölda. Alþingi var haldið á ári hverju á Þingvelli, og stóð í 14 daga; þar voru háðir dómar, þeir voru: fjórðungsdómar, einn fyrir hvern fjórðung, og voru þar dæmdar þær sakir, sem stefnt var til alþingis, og fimmtardómur, sem var æðsti dómur í einstöku málum. Kviðdómar voru mjög almennir[1]. Eptir langa styrjöld í landinu gat Hákon gamli með brögðum sínum komið því til vegar (1264), að menn gengu undir hann á Íslandi, og sóru honum land, og þegar Noregur og Danmörk urðu eitt ríki, árið 1380, kom Ísland undir Danmörku, þó að það, eins og áður, væri talið með Noregi. Þegar að Danir misstu Noreg, árið 1814, til Svíaríkis, fylgdi Ísland þó ekki Noregi, heldur var það ákveðið í 4. § í friðarsamninginum, sem er dags. 14. dag janúarmán. 1814, að Danir skyldu halda því. Eptir að Noregskonungar og síðan Danakonungar höfðu náð valdi yfir landinu, og einkum eptir að einveldi komst á í Danmörku, fóru Íslendingar að taka minni og minni þátt í stjórn sinni, og seinustu leifar af gömlu stjórninni hurfu árið 1800, þegar alþingi, sem í fyrstu hafði haft bæði dómsvald og löggjafarvald, en seinna ekki var orðið nema nokkurs konar yfirdómur, var lagt niður,

---

[1]) Þeir, sem vilja þekkja nákvæmlega eldri stjórnarlögun Íslands og skipun alþingis, ættu að kynna sjer „Den islandske Rettergang“, eptir Jón Árnason, og yfirlitið yfir hina eldri stjórn Íslands, sem er í upphafinu á ritgjörðinni „Om den islandske Familieret efter Graagaasen“, eptir Vilhjálm Finsen, landfógeta, sem er prentuð í „Annaler for nordisk Oldkyndighed“, 1849—1850, og „Historiske Fortællinger om Islændernes Færd hjemme og ude“, eptir N. M. Petersen, háskólakennara, 1. b. 1.—69. bls.

og landsyfirrjettur tekinn upp í stað þess. þegar að ráðgjafarþing voru komin á í Danmörku, voru Íslenzkir fulltrúar á þeim, en eptir tilskipun, dags. 8. dag marzmán. 1843, fjekk Ísland ráðgjafarþing sjer í lagi, sem kallað var alþingi, og nú eptir að stjórnarbót er komin á í Danmörku, er það í ráði, að láta Ísland fá þing sjer í lagi. það er vonandi, að Íslendingar láti sjer þetta lynda, þó að þeir aðhyllist helzt lýðstjórn, og sem mest jafnrjetti, og margir þeirra álíti þann tímann, sem þjóðríkið stóð, gullöld Íslands, þó að því væri áfátt í mörgu, og hafi mestar mætur á þess konar stjórnarlögun.

Aðalstjórnina í Kaupmannahöfn á íslenzkum málefnum, sem tekjuráðið hafði áður, hefur nú íslenzka stjórnardeildin; yfir henni er forstjóri, sem ber mál þau, er heyra undir stjórnardeildina, undir ráðgjafana, hvern í sinni grein, eptir því hvers efnis málið er. Œðsti embættismaður í landinu sjálfu er stiptamtmaðurinn, sem hefur 2400 rd. í laun og 1000 rd. til skrifstofukostnaðar, hann er líka amtmaður í suðurumdœminu. Auk þess er amtmaður í vesturumdœminu, sem býr í Stykkishólmi í Snæfellsnessýslu, og annar yfir norður- og austur-umdœmunum, sem býr á Möðruvöllum f Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu. Sýslumennirnir, sem opt verða seinna nefndir, dœma í hjeraði, semja lögmæt skjöl, halda uppi lögreglu, skipta arfi, og heimta skatta í sýslu sinni. Undir þeim eru hreppstjórarnir, sem amtmaður setur, einn eða að mesta lagi tveir í hverjum hrepp. Auk þessa er nokkurs konar aðalfjehirðir, það er landfógetinn, sem tekur við gjöldum af öllu landinu, og hefur sami maður á seinni tímum haft það embætti og bœjarfógetaembættið í Reykjavík. Danir, er beiðast embætta á Íslandi, verða að sýna

vitnisburði um að þeir kunni íslenzku, eptir konungsbrjefi, dags. 8. dag. aprílmán. 1844 („Coll. Tid.“, 1844, 335. bls.).

Um hinar einstöku stjórnargreinir sjer í lagi:

1) Um skattana.

Síðan losað var um verzlunina 1787, hefur Ísland ekki lagt neitt til almennra ríkisútgjalda, heldur hafa hinir hlutar ríkisins orðið að leggja því fje á ári hverju, þó að með tekjum þess sjeu talin öll gjöld af konungsjörðum[1]), og leigan af andvirði seldra konungsjarða. Á seinni tímum hefur ríkissjóðurinn þurft að leggja Íslandi minna en áður, og það varla neitt, þegar gætt er að, að helmingurinn af því, sem á ári hverju er borgað úr ríkissjóðnum til byskupsstólsins á Íslandi, hins lærða skóla og prestaskólans, verður ekki talið, sökum ástæðu þeirrar, sem er til greind á 81. bls.; og að kostnaðurinn við þingið 1851, sem er 9000 rd., ekki er fast útgjald. Þegar ekki er gætt að þessu, verður meiri munur á tekjum og útgjöldnm, og í fjárhagslögunum 1850 eru útgjöld ríkíssjóðsins talin hjerumbil 46000 rd. en tekjurnar ekki nema hjerumbil 28000 rd., þó að talið sje með afgjaldið af konungsjörðunum, sem er hjerumbil 8250 rd. á ári. Þess verða menn og að gæta, að Danmörk hefur á ári hverju hagnað á því,

[1]) Konungsjarðir á Íslandi eru flestar á þann hátt komnar undir konung, að 9 klaustur og jarðir, sem þeim til heyrðu, voru lagðar undir konung, þegar siðabótin komst á. Á 18. öld og því, sem liðið er af þessari, hefur verið selt af þeim fyrir hjerumbil 164000 rd., og konungur á enn 8737 jarðarhnndruð eptir, sem eru hjerumbil 350000 rd. virði, og eru jarðirnar stundum seldar með þeim kostum, að þriðjungurinn af jarðarverðinu er borgaður undir eins.

að verzlunin á Íslandi hefur verið í höndum Dana, og allan þann hag, sem ekki er hœgt að segja, hvað sje mikill, geta menn álitið eins og nokkurs konar skatt, er Íslendingar gjaldi, og má því í rauninni segja, að Íslendingar hafi goldið sinn hlut til hinna almennu ríkisútgjalda. Að ríkistekjur á Íslandi eru svo litlar, kemur til af því, að enginn tollur er þar goldinn af verzluninni, og af því, að svo miklu af tekjunum er varið til að launa embættismönnunum, og loksins sökum þess, að bœndurnir gjalda mjög lítið í skatt. Áður en Ísland komst í samband við Noreg, árið 1264, guldu Íslendingar engan skatt, en efnaðir bœndur guldu goðorðsmanni sínum 10 álnir í þingfararkaup. Þegar Íslendingar gengu undir Noregskonung var það ákveðið, að hver bóndi, er þingfararkaupi ætti að gegna, skyldi gjalda konungi jafnmikið í þegnskyldu, samtals 20 álnir, og þessar 20 álnir eru enn skatturinn, sem hver bóndi geldur, er tíundar hundraði fleira, en hann hefur fólk fram að fœra, og hver annar, sem á tiltekna fjármuni*), en að öðru leyti fer skatturinn ekki eptir fjáreign[1]. Auk skattsins eru goldnir 2 aðrir smátollar, það er, gjaftollurinn, sem eptir gamalli venju er goldinn af öllu tíundarbæru lausafje (og var í fyrstu goldinn próföstum), og logmannstollur, sem er lagður á með

[1]) Skatturinn er nú hjernmbil 60000 álnir, og skattbœndur ættu því að vera hjernmbil 3000 að tölu.

*) Jónsbók kveður svo að orði um þetta: „Svo skal og hver maður gjalda skatt, einhleypur, karl eða kona, þó að hann sje búlaus, ef hann á 10 hundruð fyrir sjálfan sig skuldlaust, og hundrað fyrir hvern ómaga sinn, og eitt hundrað fram yfir.“

Því.

opnu brjefi, dags. 7. dag aprílmán. 1688, til að auka tekjur lögmannanna[1]). þessi 3 gjöld ásamt konungstíund, sem talin er hjerumbil 2880 rd. á ári, hafa síðan árið 1717 í flestum sýslunum verið seldar sýslumönnunum á leigu fyrir ákveðið eptirgjald, og í konungsúrskurði, dags. 22. dag septembermán. 1838 er til tekið, hvað mikið gjalda skuli eptir hverja þeirra, og er það samtals 2650 rd., og það, sem þar er fram yfir, sem er talið hjerumbil 11000 rd. eru helztu tekjur sýslumannanna.

þó að jarðirnar á Íslandi sjeu taldar til hundraða[2]), samtals 85442 hundruð (gripir og skip eru líka metin til hundraða, samtals 10000 hundruð), er þó engin jarðabók staðfest af konungi. Eptir konungsúrskurði, dags. 18. dag júnímán. 1800, sbr. brjef frá tekjuráðinu, dags. 24. dag júním. 1800, var reyndar gjört jarðamat, en það var aldrei staðfest af konungi, og komst því ekki á. Sá jarðadýrleiki, eða sú hundraðatala, er því venjulega höfð, sem er í jarðabók Árna Magnússonar; hún er í 15 bindum, og er samin á fyrri hluta 18. aldar eptir mörgum eldri jarðabókum. Í tilskipun, dags. 27. dag maímán. 1848 (sbr. „Depart. Tid.“, 1848, 2. aukablað) er það ákveðið, að nýtt jarðamat skuli gjöra á öllum fasteignum á Íslandi, og virða hverja einstaka jörð til peningaverðs eptir gæðum sínum.

---

[1]) Bezt er skýrt frá skattgjaldi á Íslandi í ritunum eptir H. Einarsson og B. Thorsteinson, sem nefnd ern í athngagr. á 65. bls.; sbr. „Frjettir frá fulltrúaþinginu í Hróarskeldu“, 1840, 33.—70. bls. (sbr. „Fædrelandet“, 1841, 521. og 522. blað) og „Om det danske Kammervæsen“, eptir Mandix, 345. bls.

[2]) Jarðarhundrað er venjulega hjerumbil svo mikið úr jörðu, er þarf til að fóðra eitt kúgildi.

## 2. Um kirkju- og skólamálefni.

Íslendingar eru trúrœknari hversdagslega en flestar aðrar þjóðir í norðurhluta norðurálfu, og einkum tíðkast mjög bœnir og húslestrar meðal þeirra. Sjaldan leggur bátur svo frá landi, að skipverjar ekki taki ofan, og gjöri bœn sína. Margar kirkjur og prestar eru á landinu, 301 kirkjur og 181 prestar, og er þá prestur fyrir hverja 308 menn af landsbúum, að tiltölu 5 sinnum fleiri prestar en í Danmörku. Flestir prestar á Íslandi hafa þess vegna mjög lítil laun. Byskupinn[1]) hefur reyndar 2000 rd. á ári í laun, en ekki eru það nema 2 prestar, sem hafa svo góð brauð, að ætla megi, að tekjur þeirra sjeu meiri en 800 rd., 19 prestar hafa 300—800 rd., 35 hafa 200—300 rd., 82 hafa 100—200 rd., 32 hafa 50—100 rd., og 8 hafa minna en 50 rd. (sbr. „Ný Fjelagsrit", VI. 71.—90. bls.).

Að tekjurnar af brauðunum á Íslandi eru svo litlar, kemur bæði til af því, að fólkið er svo fátt í sóknunum, þó að þær sjeu stórar, og líka af því, að tíundirnar, sem Gissur byskup kom á, árið 1096, eru svo litlar. Tíundin var lögð á eign manna (einkum fasteignir, pening báta og net), en ekki á það, sem menn afla. Tíundin átti að vera $1^1/_5$ alin af hverju hundraði, sem tíundað er, eða með öðrum orðum $^1/_{100}$ af innstœðunni eða $^1/_{10}$ af leigunni; telur því hver fram tíundarbært fje sitt til hundraða á hreppstjóraþingi, og sannar framtöluna með eiði, ef þess er krafizt. Þetta væri reyndar mikil tíund, ef allur afli

---

[1]) Fyrrum voru 2 byskupar á Íslandi, annar í Skálholti og annar á Hólum; en síðan 1801 er ekki nema einn byskup, og situr hann í Langarnesi hjá Reykjavík.

manna væri álitinn eins og leiga af eignunum, því þá væri gjört ráð fyrir, að þær gæfu af sjer 10 af hundraði árlega; en þar sem eins er ástatt og á Íslandi, að mestallur afli og ábati manna kemur af vinnu, og því sem náttúran gefur af sjer (t. a. m. af fiskiveiðum o. s. frv.), en mjög lítið af eigninni, þá er tíund þessi ekki mikið gjald [1]), og konungstíund, kirkjutíund og preststíund voru í lok 18. aldar allar saman taldar hjerumbil 3000 rd. Stiptamtmaðurinn veitir í nafni konungs öll prestsembætti á Íslandi, nema 6 stærstu brauðin, þeim sem byskup stingur upp á [2]), og ekki beiðast guðfræðingar, sem tekið hafa embættispróf við Kaupmannahafnar háskóla nema fárra af þeim. Áður fyrri kenndi skólameistarinn í hinum lærða skóla í landinu, sem var á Bessastöðum þangað til árið 1846, guðfræði (og var hann því kallaður „lector theologiæ"), svo að lærisveinarnir gátu orðið prestar, undir eins og þeir voru komnir úr skóla, og höfðu haldið burtfararræðu. Í konungsúrskurði, dags. 7. dag júnímán. 1841, var það ákveðið, að flytja skyldi skólann frá Bessastöðum til Reykjavíkur, og auka hann, og líka skyldi stofna þar prestaskóla. Eptir að skólinn, árið 1846, var fluttur til Reykjavíkur (sbr. konungsúrskurði, dags. 12. dag aprílmán. 1844 og 24. dag aprílmán. 1846) [3]), var líka stofnaður

---

[1]) Sbr. rit þau, sem nefnd ern í athugagr. á 65. bls., og ritið eptir Mandix: „Om det danske Kammervæsen", 347. bls.

[2]) Ef stiptamtmaðurinn er ekki ráðinn í að fara eptir uppástungu byskupsins skal hann, eptir konungsúrskurði dags. 14. dag maímán. 1850 ræða málið við byskupinn, og ef þeir verða þá ekki ásáttir, skal ráðgjafinn yfir kirkju- og skóla-málefnunum skera úr því.

[3]) Skólasögn Íslands má lesa í „Collegial-Tidenden", 1841, 521.—536. bls. Sbr. Ný Fjelagsrit 2. ár.

prestaskóli handa Íslandi eptir konungsúrskurði, dags. 21. dag maímán. 1847, og verða allir, sem vilja verða prestar í landinu, og ekki hafa tekið próf í guðfræði við Kaupmannahafnar háskóla, að ganga í þenna skóla í 2 ár, og taka síðan próf. Hjerumbil 11000 rd. er á ári hverju kostað til lærða skólans, og prestaskólans og er það fje goldið úr ríkissjóðnum, af því að peningar þeir, sem komið hafa fyrir seldar skólaeignir og stólsjarðir hafa runnið í þann sjóð [1]).

Engir almúgaskólar eru á Íslandi, nema ef telja skyldi barnaskólann í Reykjavík. Foreldrarnir kenna börnunum allt, sem þau eiga að læra, í heimahúsum, og gjöra sjer venjulega mikið far um, að ala börnin vel upp, og stjórnin skiptir sjer ekki af barnakennslunni að öðru leyti en því, að presturinn spyr þau í kirkjunni, fer einu sinni á ári um sóknina í húsvitjun, og lætur börnin venjulega vera hjá sjer viku eða hálfan mánuð, áður en þau eru fermd. Almúgamenn á Íslandi eru greindir og íhugunarsamir, og vita langt um meira en almúgi í flestum öðrum löndum, og kemur það að miklu leyti til af því, að þeir eru mjög námfúsir. Flestir Íslendingar kunna bæði að lesa og skrifa, og lesa með eptirtekt allt, sem þeir geta náð í, og mundu því bókasöfn í hverri sókn, sem hentugum bókum væri safnað í, gjöra mjög mikið gagn á Íslandi, og stuðla mest til fræðingar almúgans [2]). Á hinum löngu vetrarkvöldum lesa

[1]) Fyrir jarðir Skálholtsstóls, sem seldar hafa verið, hafa fengizt 59049 rd., og fyrir Hólastólsjarðir 72138 rd. Tekjur af Skálholtstíundum þeim, er fjellu í konungsgarð, sem ekki eru seldar á leigu sýslumönnum, eru 1750 rd. á ári.

[2]) Í sumum sóknum hafa menn stofnað slík bókasöfn. Sbr. „Island fra den intellectuelle Side betragtet", eptir Tómas Sæmundsson.

menn gamlar sögur (sem eru leifar af bókiðnum Íslendinga á miðöldunum, þegar allar vísindaiðkanir lágu í dái annarstaðar í norðurálfunni)[1]) og aðrar bækur, og margir fátækir umrenningar hafa ofan af fyrir sjer með því að lesa bækur og kveða rímur. Íslendingar láta hug sinn mjög dvelja við fornöldina[2]). Þeir reyna ekki að fá ljósa hugmynd um ástand sitt, eins og það er, eða ráða bætur á því, sem áfátt er, en hafa allan hug sinn á lífernisháttum og stjórnarlögun forfeðra sinna. Önnur deild hins íslenzka bókmenntafjelags er í Reykjavík; þar er líka stiptsbókasafnið, sem er hjerumbil 7000 bönd, og á það fastan sjóð, 2000 rd. Bókasafn þetta er stofnað árið 1821, og átti C. C. Rafn, etatsráð, mestan þátt í því að stofna það. Skipulagsskrá bókasafns þessa er dagsett 5. dag ágústmán. 1826. Norðurumdæmið á bókasafn á Akureyri, og vesturumdæmið í Stykkishólmi, og í mörgum prófastsdæmum eiga prestar bókasöfn. Prentsmiðjan á Íslandi er í Reykjavík.

### 3. Um lög og dómsvald.

Eptir skipun konungs 14. dag aprílmán. 1688 var byrjað á að semja lögbók handa Íslandi, og var skipun þessi ánýjuð 1719 og 1728. Í skýrslu frá Stampe, dags.

---

[1]) Sbr.: „Om den islandske Historieskrivning“ eptir P. E. Müller. Vísindi og skáldskapur voru mjög stunduð á Íslandi frá 10. öld þangað til á miðri 14. öld, og skáldin íslenzku voru löngum með konungum og jörlum á norðurlöndum til að kveða um afreksverk þeirra.

[2]) Það gjörir líka mikið til, að flestir bæir hafa enn sama nafn, og þeir fengu, þegar land byggðist, og menn vita, hverjir hafa búið þar, bæði að fornu og nýju, og sögu þeirra manna, og flestar sagnir eru þannig bundnar við einstaka staði.

17. dag júnímán. 1768, segir, að einlægt sje verið að semja almenn lög banda Íslandi, og 6. dag júnímán. 1800 skipaði konungur, að lagafrumvarpið skyldi vera búið á 3 árum, en þó verða Íslendingar enn að bjargast við gamlar lögbækur, og eru sumar þeirra margra hundraða ára, og eru þær: Jónsbók, er Magnús lagabœtir sendi til Íslands árið 1280 (hún er gefin út á dönsku í Kaupmannahöfn árið 1763), og hún er aðallögbókin[1]), norsku lög Kristjáns 5., sem hafa lagagildi í ýmsum málum, kristinnrjettur Kristjáns 4. og kirkjusiðabók Kristjáns 5.[2]), og auk þess margar tilskipanir, konungsbrjef og konungsúrskurðir og annað því um líkt eins og í Danmörku[3]).

Í fyrstunni hefur hver sýsla verið þinghá út af fyrir sig, en nú eru sumstaðar tvær sýslur lagðar undir einn sýslumann, og eru því sýslumannsembættin ekki nema 18, þau eru þessi:

---

[1]) Í „Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed", 1. b. 109. bls. og þar á eptir, er talað um lög þau, sem voru á Íslandi, áður en Jónsbók var lögleidd. Það er verið að gefa út grágás, ásamt danskri útleggingu í „Nordiske Oldskrifter".

[2]) Í „Grundrids af den danske Kirkeret", eptir Rosenvinge, sem er prentað í Kaupmannahöfn 1838, eru í 1. b. 26. og 27. bls. talin upp rit, sem snerta kristinnrjett Íslands.

[3]) Sbr. „Commentatio de legibus, quæ jus Islandicum hodiernum efficiant etc. Hafniæ 1819", eptir Magnús Stephensen. („Lit. Tid." 1820, 15. og 16. örk).

| í suðurumdœminu, | fólkstala 1845. |
|---|---|
| Gullbringu- og Kjósar-sýsla, þegar Reykjavík er ekki með talin | 4644 |
| Reykjavíkurbœr | 961 |
| Borgarfjarðarsýsla | 2166 |
| Árnessýsla | 5159 |
| Rangárvallasýsla | 4776 |
| Austur- og Vestur-Skaptafellssýsla | 3262 |
| Vestmannaeyjasýsla | 396 |
| samtals | 21364 |
| **í vesturumdœminu,** | |
| Mýra- og Hnappadals-sýsla | 2360 |
| Snæfellsnessýsla | 2818 |
| Dalasýsla | 1872 |
| Barðastrandarsýsla | 2494 |
| Ísafjardarsýsla | 4110 |
| Strandasýsla | 1302 |
| samtals | 14956 |
| **i norður- og austur-umdœminu,** | |
| Húnavatnssýsla | 4000 |
| Skagafjarðarsýsla | 3997 |
| Eyjafjarðarsýsla | 4028 |
| þingeyjarsýsla | 4334 |
| Norður-Múlasýsla | 2999 |
| Suður-Múlasýsla | 2880 |
| samtals | 22238 |

Dómum, sem sýslumenn dœma, er skotið til landsyfirrjettarins í Reykjavík, sem er settur með tilskipun, dags. 11. dag júnímán. 1800. Í dóminum sitja 1 yfirdómari og 2 meðdómendur, og þaðan er skotið málum til hæstarjettar í Kaupmannahöfn. Hreppstjórarnir eru 169 að tölu; þeir hjálpa sýslumönnum til að halda við lögreglu, hver í sínum hrepp. Herlið er ekkert í landinu, og stjórnin hefur því ekkert annað sjer til aðstoðar, hvernig sem á stendur, en valdsmenn og lögreglumenn[1]). Sýslumannaembættin eru að tiltölu beztu embættin á Íslandi. Dr. Schleisner telur í riti því, sem opt er áður nefnt, að sýslumaðurinn í beztu sýslunni hafi 2000 rd. á ári, og í 3 sýslunum, sem ganga næst henni, 1400—1500 rd., þar næst í tveimur 1000—1200 rd., þar næst i þremur 800—900 rd., og í 4 þeim minnstu 800 rd. (rjettara væri ugglaust að telja 400—800 rd.).

Þó að sagt sje, að Íslendingar sjeu þrætugjarnir, eru þar þó lítil málaferli. Í konungsríkinu Danmörku kemur ein sök, er heyrir til hinum almennu sáttanefndum, á hverja 60 menn, en á Íslandi kemur ekki nema ein á hverja 260. Á Íslandi er sætzt á $^2/_3$ af málum þeim, sem stefnt er til sáttafunda, eins og í Danmörku, $^1/_4$—$^1/_5$ er skotið til dóms og laga á Íslandi eins og í Danmörku, en ekki kemur nema þrítugasta hvert í dóm á Íslandi, en þar á móti tíunda hvert í Danmörku. 4 árin, 1843-1846, komu 910 mál, eða 227 að meðaltölu á ári, fyrir sáttanefndirnar, og var sætzt á 161 á ári að meðaltölu, 9 skotið á frest, 49 vísað til dóms og laga, og 8 komu í

---

[1]) Það sýndi ank annars, hvað landið var varnarlanst, að víkingar frá Algeiri gengu á land í Vestmannaeyjnm 2. dag aprílmán. 1627, rændn þar, og fluttn marga af eyjabúnm úr landi, og seldu þá mansali.

dóm. Lögreglumál á Íslandi eru að tiltölu hjerumbil 30 sinnum færri en í Danmörku, það er að skilja, hjerumbil 10 á ári, og er sætzt á flest þeirra.

### 4. Um læknaskipun o. s. frv.

Læknaskipun á Íslandi byrjaði árið 1760. Það voru reyndar stofnsettir 4 spítalar fyrir holdsveika menn árið 1652, en þeir höfðu þar einungis viðurværi sitt en engar lækningar. Landlæknir var fyrst settur árið 1760, og enn eru ekki á öllu landi nema 7 læknar, sem eru settir af stjórninni, auk landlæknisins, sem líka er hjeraðslæknir. Í Danmörku er læknir fyrir hverja 2582 menn (í Kaupmannahöfn er 1 fyrir hverja 564, á hinum dönsku eyjum, þegar Kaupmannahöfn er frá skilin, 1 fyrir hverja 3495, og á Jótlandi 1 fyrir hverja 5016), en á Íslandi er ekki nema 1 læknir fyrir hverja 7000 menn. Þar á móti er 1 prestur fyrir hverja 308 menn og 294 kirkjur, en ekkert hús fyrir sjúka menn[1]). Sökum þess að læknisumdæmin eru svo stór, geta hjeraðslæknarnir ekki komizt yfir að hjálpa öllum, sem við þurfa; auk þess eru vegir svo vondir og slíkur farartálmi að snjónum á veturna og vatnavöxtum á sumrin, að hjeraðslæknarnir geta ekki iðuglega vitjað sjúkra nema í þeim sóknunum, sem næstar þeim eru, og verður því mestur þorri landsbúa að vera án læknis, og mestar aðgjörðir læknanna verða því skriflegar ráðleggingar, sem ekki geta orðið að miklu haldi. Borgun fyrir lækningar er mjög lítil, og er talið, að hjeraðslækn-

---

[1]) Eptir opnu brjefi, dags. 23. dag ágústmán. 1848, er nú safnað saman tekjunum af spítölunum í landinn í sjóð, og á að verja honum til að bæta læknaskipun á Íslandi. Sbr. „Depart. Tid." 1848, 802.—813. bls.

irinn fái hjerumbil 300 rd. á ári fyrir þær (og eru því 300 rd., sem þeir hafa í laun*), langt um of lítið), og það er þessu að kenna, að engir læknar eru í landinu nema þeir, sem stjórnin hefur sett. Af því að læknar eru svo fáir, hafa menn mjög opt skottulækna og almenn ráð, sem alþýða þekkir. Dr. Schleisner segir í ríti því, sem opt hefur verið áður nefnt: „Eins og hver Íslendingur er sinn eiginn smiður, eða kann að minnsta kosti að járna hest, eins er og hver sinn eiginn læknir, eða þekkir eitthvað til lækninga. Auk þess eru líka margir, sem reyna til að afla sjer betri þekkingar á lækningum, til þess að geta hjálpað öðrum; einkum eru það sumir prestar, fáeinir hreppstjórar og hinir svo nefndu blóðtökumenn, og er optast einn þeirra í hverri sókn.“ Þess konar menn leita sjer þekkingar í alþýðlegum lækniritum, t. a. m. í lækningabók Jóns Pjeturssonar og öðrum þess konar ritum, eða í gömlum handritum, er gengið hafa mann frá manni, og er efni þeirra annaðhvort hræðilega hjátrúarfull og heimskuleg ráð við sjúkdómum[1]), er voru almenn á fyrri öldum, og finnast þau enn víða í gömlum lækningabókum, eða nokkuð vísindalegri miðaldalækningar, og eru

---

[1]) Ein hjátrúin, sem er almenn á Íslandi er sú, að úfurinn sje hættulegur, og að það drjúpi eitur úr honum, sem drepi mann, þegar að hann drýpur í þriðja sinn, og er hann því skorinn burt sem fyrst, og er til þess haft annaðhvort úfjárn eða skæri.

*) Eptir brjefi frá stjórnarherra innanríkismálefnanna til stjórnarherra ríkisfjárins, dags. 14. dag júnímán. 1851, og svari hans í brjefi, dags. 21. dag sama mánaðar, vorn lann þriggja elztu hjeraðslæknanna á Íslandi aukin um 300 rd., og þriggja hinna yngstu um 200 rd. í fjárhagslögunum, dags. 27. dag marzmán. 1851.

þar til greind ráð beztu lækna frá þeim tímum. Venjulega taka menn ekkert fyrir lækningar; þó eru líka til reglulegir skottulæknar[1], er kaupa læknisdóma hjá lyfsölumönnum, og selja þá aptur við miklu meira verði, og neyta ýmsra bragða og pretta, til þess að menn fái traust á sjer, og eiga þeir hægt með að færa læknisdóma sína fram, af því að ekki eru nema 3 lyfjabúðir á landinu, í Reykjavík, Stykkishólmi og á Akureyri, og eru 2 hinar síðar nefndu settar árin 1839 og 1840[2]. 37 yfirsetukonur eru á Íslandi, en fæstar þeirra hafa lært á fæðingarhúsinu í Kaupmannahöfn; hinar hafa fengið kennslu hjá landlækninum eða einhverjum hjeraðslækninum, og ekki ver stjórnin nema 200 rd. á ári til að launa yfirsetukonum. Aptur á móti eru mjög margar aðrar konur, sem sitja yfir, án þess að kunna neitt til þess. Þetta er reyndar ekki eins hættulegt á Íslandi, eins og það væri annarstaðar, af því að íslenzkar konur eru mjög hraustar, og má meðal annars ráða það af því, að sumar konur stíga af sæng þremur dögum eptir barnsburð. Í Kaupmannahöfn deyr 1 af 85 sængurkonum (og kemur það einkum til af því, að svo margar deyja úr sængurköldu á fæðingarhúsinu), en á Íslandi deyr 1 af 241 konum af barnsförum; en þó er það víst, að á ári hverju deyja margar konur og mörg börn, sem hefði mátt bjarga, ef yfirsetukonur hefðu verið betri, og fyrst að menn eru nú búnir í 20 ár að ræða yfir-

---

[1]) Sjaldnar eru það konur, sem fást við lækningar á Íslandi en víða auuarstaðar, og er það furða, af því að kouur lækuuðn sár manna hjá uorðmönnum í foruöld.

[2]) Læknar á Íslaudi selja því læknisdóma, og eykur það dálítið hinar litlu tekjur þeirra, eu þeir verða þó sjálfir að kaupa þá hjá lyfsölumöunum. Stjóruin ver á ári hverju 400 rd. til læknisdóma hauda fátækum mönnum.

setukvennamálið, væri þess óskandi, að mál þetta væri leitt til lykta. Sömu ákvarðanir um sóttvarnir gilda á Íslandi og í Danmörku, sbr. opið brjef, dags. 20. dag júnímán. 1838; um þær segir dr. Schleisner, að það ætti að haga þeim eptir ásigkomulagi landsins; hann segir, að þeim sje ekki hlýtt, og heldur hann, að það komi til af því, að læknar ráði ekki nógu miklu í sóttvarnarnefndunum í kauptúnunum, er settar voru eptir umburðarbrjefi frá amtmanninum í suðurumdæminu, dags. 14. dag júlímán. 1831, heldur sjeu menn í nefndunum, sem hafi hag af að skjótast undan sóttvarnarreglunum. Á 31. bls. hjer að framan er það sýnt, hvað íllt hefur hlotizt af þessu. Útlendir sjúkdómar eru: kalda, franzós, eitlaveiki, og fá innlendir menn þessar sóttir mjög sjaldan, og sama er að segja um maðksmognar tennur, drykkjuæði (og er þó drykkjuskapur mjög almennur á Íslandi) og lungnaveiki, og er Íslendingum þó mjög hætt við henni, þegar þeir koma til Danmerkur. Sjómenn á verzlunarskipum hafa opt flutt franzós til landsins, en hann hefur ávalt drepizt eptir nokkurn tíma, og eru landsmenn þó ekki skírlífir, svo orð verði á gjört. Að eitlaveikin og lungnaveikin, sem henni er skyld, eru varla til í landinu, ætla menn að komi til af því, að mestallur matur, sem borðaður er, er ſitukenndur, og af því, hvað mikið þorskalýsi blandast á ýmsan hátt við matinn. Þó að Ísland sje þannig laust við 3 sjúkdóma, franzós, eitlaveiki og lungnaveiki, er hafa svo mikil áhrif á vellíðun manna og aldur annarstaðar í norðurálfu, eru aptur á móti 3 aðrir sjúkdómar, er liggja þar í landi, og gjöra eins mikið að verkum, það er: lifrarveiki, holdsveiki og ginklofi. Sjúkdómur sá á Íslandi, sem menn kalla lifrarveiki, er reyndar eptir rann-

sóknum dr. Schleisners ekki lifrarveiki, heldur sjúkdómur, sem kemur af ormum í innýflum, sem kallaðir eru bandormar. Sjúkdómur þessi er svo almennur, að talið er að 7. hver maður á Íslandi hafi hann, og af 2600 sjúkdómum, sem dr. Schleisner rannsakaði, voru því 328 lifrarsjúkdómar[1]), og af 327 sjúklingum, sem hann átti sjálfur við, hafði sjötti hver þessi veikindi, og halda menn, að það komi til af einhverjum mat, en vita þó ekki hverjum, álíka margir karlar og konur fá veiki þessa, og fer hún vaxandi með aldrinum, fá karlmenn hana einkum milli þrítugs og fertugs og konur milli fertugs og fimmtugs. Holdsveikin, sem var svo almenn á miðöldunum, að 2000 spítalar fyrir holdsveika menn voru í Frakklandi einn saman, þegar Loðvík 8. sat þar að ríkjum, og í öllum kristnum löndum voru á þeim tímum 19000 spítalar fyrir holdsveika menn, er nú á tímum ekki nema á einstöku stöðum í heimi, og á Íslandi hefur hún verið langt um almennari áður, en hún er nú[2]). Í hinni hræðilegu bólusótt, sem gekk árið 1707, liðu flestar holdsveikar ættir undir lok, og voru því holdsveikir menn árið 1768 ekki

---

[1]) Sumir læknar á Íslandi hafa bæði svarað því, sem til er tekið í tilskipun, dags. 20. dag desembermán. 1803, og líka sent á ári hverju skrá um alla sjúka menn, er þeir hafa fengizt við, og á þann hátt hefur dr. Schleisner getað safnað 2600 sjúkdómum, til að rannsaka þá nákvæmar.

[2]) Sbr. ritgjörð eptir dr. Hjaltalín: „Spedalskheden eller Leproserne med specielt Hensyn til deres Forekomst i Island“, sem er prentuð í Kaupmannahöfn 1843. Í „Atlas zoologique médical et géogr.“, sem áður er nefndur á 12. bls., eru nokkrar steinprentaðar myndir með litum, sem eru gjörðar eptir líkþráum mönnum á Íslandi með mikilli nákvæmni.

nema 268, árið 1838 voru þeir ekki orðnir fleiri en 128, og nú eru það ekki nema bjerumbil 70 menn, sem hafa þessa veiki; hún gengur í ættir [1]); sjúklingar þessir eru að meðaltölu veikir í 7 ár, áður en þeir deyja. Á norður- og austur-ströndum landsins, þar sem fiskiveiðar eru litlar, eru mjög fáir holdsveikir menn, en þar á móti er þriðjungur allra holdsveikra manna í Gullbringusýslu, og flestallir í einni sókn, þar sem sjóútvegur er mestur. það er eins á Íslandi og í Noregi, að líkþráir menn eru einkum við strendurnar og firðina, en sjaldan uppi í landinu. þó að nú líkþráin hafi farið minnkandi, þá hefur ginklofinn staðið í stað; hann kemur einkum til af því, að bœirnir fyllast af mönnum um vertíðina, og eykur það sóðaskap og gjörir loptið banvænt, og líka spillir það mjög til, að kastað er slógi og slori úti fyrir bœjardyrunum. Sjúkleikur þessi hefur sömu einkenni og annarstaðar, en hvergi í heimi er hann eins almennur. Einkum eru Vestmannaeyjar og landið þar upp undan orðlögð fyrir þenna sjúkdóm, og næstu árin, áður en dr. Schleisner var sendur til Íslands, til að ráða bœtur á þessum sjúkdómi (og hann kom miklu til leiðar), dóu 64 af hverjum 100 börnum, er fœddust lifandi, frá 5. dags til 12. dags, sem þau lifðu, en að öllu samtöldu dóu 77—80 börn af hverjum 100 á fyrsta ári, nú hefur þetta þó

---

[1]) Árið 1837 var prófað ætterni 128 líkþrárra manna, er þá voru á Íslandi, og reyndist svo, að foreldrar þeirra allra höfðu verið holdsveikir. Holdsveikin er tíðari meðal fátœkra manna, en þó hafa líka heldri menn hana stundum, þó þeir hafi þrifalegan aðbúnað í alla staði og góðan og hollan mat (sbr. ritgjörð Hjaltalíns, 54. bls).

breytzt svo til batnaðar, að ekki deyja fleiri en 28 af hundraði hverju. Börnum er reyndar sjaldan leitað lækninga á Íslandi, og af 2533 sjúklingum, sem dr. Schleisner komst að, hvaða læknisaðferð var höfð við, voru ekki nema 38 yngri en eins árs. Sjúkdómar, sem eru tíðastir á fullorðnum mönnum eru: lifrarveiki eða meinlæti flugkveisa, móðurveiki, bósti og landfarsótt. Flugkveisan kemur í mann, þegar veður er hvasst og regnasamt, og er hún svo tíð, að flestir menn, sem farnir eru að eldast, hafa að minnsta kosti snert af henni. Taugaveikindi eru svo almenn á Íslandi, að hjerumbil 7. hver maður, sem læknir er sóttur til, liggur í þess konar veikindum, og væri það þó ekki ætlandi hjá þeirri þjóð, er lifir svo óbreyttu lífi. Flest veikindi á Íslandi eru langvinn, og mörg þannig, að menn eiga í þeim alla æfi; krypplingar og kararmenn eru líka mjög margir, og kemur það til af því, að karlmenn verða svo opt fyrir meiðslum. Meðal fátækra manna í Kaupmannahöfn er helmingur allra sjúkdóma bráðasóttir, en á Íslandi eru það ekki nema $^1/_5$[1]); ekki nema hjerumbil 8. hver af öllum sjúklingum meðal fátækra manna í Kaupmannahöfn þurfa sáralækningar, en á Íslandi 5. hver. Geðveikir menn eru hjerumbil 150 að tölu, eða 0,26 af hverju hundraði manna, og eru það því að tiltölu dálítlu færri en í Danmörk. $^3/_5$ þeirra eru fábjánar og $^2/_5$ vitstola, og það er eins á Íslandi og í Danmörku, að fleiri konur en karlar eru vitstola, en fá-

---

[1]) Þetta kemur, ef til vill, til af því, að læknar ekki fá vitneskju um sumar bráðasóttir, af því að þeir eru ekki sóttir sökum fjarlægðar, en langvinn veikindi fá þeir optast að vita um.

bjánarnir eru flestir karlmenn. Margir af þeim, sem eru vitstola á Íslandi, eru orðnir það af trúarvingli, og kemur það til af því, að hjátrú og trúarvingl eru þar víða mjög tíð.

### 5. Um sveitamálefni.

Sveitartillög hafa lengi, einkum á seinni árum, verið þyngstu álögur, sem hafa legið á almúga á Íslandi. Framfærsla ómaga er tvenns konar: annaðhvort, að menn verða að annast ómagana sökum skyldleika (sbr. reglugjörð, dags. 8. dag janúarmán. 1834), eða menn verða að halda sveitarómaga, af því að hver hreppur á að annast sína ómaga. Nú verða menn ekki sveitlægir, fyr en menn hafa verið 10 ár samfleytt í hreppnum[1]), sbr. opið brjef, dags. 6. dag júnímán. 1848. Hreppstjórinn og presturinn ákveða sveitartillagið, hvar ómagar eru settir niður, og hvað mikið skuli gefa með þeim[2]). Árið 1801 voru ómagar 2190 að tölu (900 karlmenn og 1290 konur), árið 1835 1305, árið 1840 1961, árið 1845 1693 og árið 1848 1609. Þó að nú tala sveitarómaganna fari þannig minnkandi, eru þeir enn œði margir; í konungsríkinu Danmörku eru ekki af þúsundi manna fleiri en 23 sveitarómagar, en á Íslandi eru það 28. Það virðist reyndar undarlegt, að svo margir sveitarómagar skuli vera í landi, þar sem svo mikil fæð er á verkmönnuum, og að þeir skuli vera 6 sinnum fleiri en daglaunamenn, en það

---

[1]) Hreppur og sókn standast ekki ætið á.

[2]) Sbr. „Om den islandske Almues aarlige Udgifter og Pligter", eptir Lindahl, 20. bls. og þar á eptir; bókin er prentuð 1788. Sbr. einnig 104.—110. bls. í riti eptir B. Thorsteinson, konferentsráð, sem nefnt er á 49. bls.

kemur að nokkru leyti til af því, að hinar mörgu sóttir, sem ganga í landinu, gjöra marga menn vanheila og óverkfœra[1]).

---

[1]) Nokkrir vísindamenn hafa góðfúslega hjálpað mjer, á meðan jeg hef verið að semja allan þenna kafla um Ísland, einkum Jón Sigurðsson, skjalavörður og alþingismaður, og Oddgeir Stephensen, jústitsráð og forstjóri hinnar íslenzku stjórnardeildar.

## VIÐBŒTIR.

### Fólkstala á Íslandi 1. dag febrúarm. 1850.

| prófastsdœmi | karlar | konur | bœndur | sjóar-bœndur | ómagar | sam-tals |
|---|---|---|---|---|---|---|
| í suðurumdœminu: | | | | | | |
| Gullbr. og Kjósarsýslu . | 2729 | 2940 | 274 | 555 | 111 | 5669 |
| Borgarfjarðarsýslu . . . | 1029 | 1068 | 281 | 36 | 62 | 2097 |
| Árnessýslu . . . . . . . | 2381 | 2637 | 690 | — | 137 | 5018 |
| Rangárvallasýslu , . . . | 2367 | 2798 | 764 | — | 108 | 5165 |
| Vestur - Skaptafellssýslu | 1007 | 1121 | 296 | — | 54 | 2128 |
| Austur - Skaptafellssýslu | 563 | 649 | 163 | — | 24 | 1212 |
| | 10076 | 11213 | 2468 | 591 | 496 | 21289 |
| í vesturumdœminu: | | | | | | |
| Mýra og Hnappdalssýslu | 873 | 956 | 253 | — | 34 | 1829 |
| Dalasýslu . . . . . . . . | 890 | 1033 | 251 | — | 52 | 1923 |
| Snæfellsness og Hnappad. | 1567 | 1698 | 392 | 148 | 94 | 3265 |
| Barðastrandarsýslu . . . | 1197 | 1321 | 305 | 7 | 84 | 2518 |
| Vestur - Ísafjarðarsýslu | 842 | 890 | 178 | 4 | 36 | 1732 |
| Nordur - Ísafjarðarsýslu | 1158 | 1314 | 291 | 6 | 53 | 2472 |
| Strandasýslu. . . . . . . | 639 | 734 | 171 | — | 39 | 1373 |
| | 7166 | 7946 | 1841 | 165 | 392 | 15112 |
| í norður- og austurumdœminu: | | | | | | |
| Húnavatnssýslu . . . . , | 1920 | 2149 | 534 | — | 66 | 4069 |
| Skagafjarðarsýslu . . . . | 1894 | 2028 | 578 | — | 59 | 3922 |
| Eyjafjarðarsýslu . . . . | 1918 | 2047 | 534 | 19 | 80 | 3965 |
| Þingeyjarsýslu . . . . . | 2136 | 2307 | 612 | 5 | 60 | 4443 |
| Norður - Múlasýslu . . . | 1667 | 1689 | 404 | 2 | 33 | 3356 |
| Suður - Múlasýslu . . . | 1397 | 1469 | 344 | 3 | 55 | 2866 |
| | 10932 | 11689 | 3006 | 29 | 353 | 22621 |

það hafa því verið á Íslandi 1. dag febrúarmán. 1850, 59022 menn

Þess ber að gæta við töfln þessa, að þar sem taldir eru bændur og sjóarbændur, eru taldir með allir þeir, sem standa sjálfir fyrir atvinnuvegi, og í ómagadálkinum eru einungis taldir sveitarómagar og epítalaómagar, en ekki þeir, sem einungis þiggja styrk af sveit.

Árið 1850 fæddnst alls 2351 börn á Íslandi, 1199 sveinbörn og 1152 meybörn; af þeim fæddust 67, það er 25 sveinb. og 42 meyb., andvana; verður þá tala barnanna, sem fæddust lifandi 1174 sveinb. og 1110 meyb., það er samtals 2284. Sama árið dóu 1509, 758 karlkyns og 751 kvennkyns; af þeim voru 926 börn, yngri en 10 ára, 479 sveinb. og 447 meyb., og eru þó ekki talin þau 67 börn, er fæddust andvana. Alls hafa því fæðzt 842 fleiri en dáið hafa, 441 karlkyns og 401 kvennkyns. Hefði því barnadauðinn ekki verið svo geysimikill, hefði fólkstalan aukizt hjerumbil um 1000.

Þó ber þess að gæta, að börn þau, sem hafa fæðst í janúarmánuði 1850, eru talin í manntaletöflunum, og má því ekki telja þau með viðaukanum það árið; en ekki verður sjeð hvað margir hafa fæðzt á mánuði í töflunum yfir fædda og dauða, en þó má ætla að nærri fari, ef dregnir eru frá viðaukanum jafnmargir og dáið hafa í janúarmánuði, en það eru 128, og hefir þá fólkið fjölgað það ár um 714.

Árið 1851 fæddust alls 2366 börn á Íslandi, 1234 sveinb. og 1143 meyb.; af þeim fæddust 39 sveinb. og 27 meyb. andvana, samtals 66, verður þá tala barnanna, sem fæddust lifandi, 2310, það er 1195 sveinb. 1115 meyb. Sama árið dóu 1906, 1029 karlkyns og 877 kvennkyns. Af þeim voru 1079 börn, yngri en 10 ára, 585 sveinb. og 494 meyb., og eru þó ekki þar með talin þau 66 börn, er fæddust andvana. Alls hafa því fæðzt 470, það er 205 karlkyns og 265 kvennkyns fleiri en dáið hafa þetta ár.

Tala alls fólks á Íslandi hefur því við árslokin 1851 verið 60207.

